ad þad Port er vyot z ſa Vegur er breiður ſem leider niður til Fortapunar/og þeir eru marger/ ſem a hönum reika. Og þad Port er þraungt/og ſa Vegur er mioor/ſem til Lijfſins leider/z þeir eru ſaaer er þañ rata.

Vakted ydur fyrer Fals-Spamoñum/ ſem til ydar koma i Klædum Saudaña/ eñ



iñaun til eru þeir glepſande Vlfar. Af A vortum þeirra meigeþier þa kienna/ verda nockud Vijnbereñ ſamañleſeñ af Þirnum. Ellegar Fijkiur af Þyſlum. So mun og huert gott Trie gióra godañ Avopt/ eñ huert vondt Trie vondañ Avoxt

[c] Þui eckert gott Trie ber þwen̄ Avoxt/ og eckert þwed Trie ber godan̄ Avext/ huort Trie þeckest aþ sÿnum Averte / þui ej lesa Menn saman̄ Fykiur aþ Þyrnum / og ej helldur Wÿnber af Þÿstlum. [a] Gott Trie giefur ej fært vondan̄ Avoxt / og ej helldur giefur vondt Trie þært goodan̄ Avoxt. Hu- ort þad Trie sem ecke færer goodan̄ Avext nu uppþoggved verda og i Elld kastast. Fy- ter þui meige þier aþ þeirra Avoxtū þeckiā þa. [c] Goodur Madur aþ goodum Sióod sins Hiarta þrameber gott/ og illur Madur aþ vondum Sióod sÿns Hiarta þrameber illt. Þviad þad sem Hiartad er þullt aþ/þad flód er wt aþ Munnenum.

Til hvors kalle þier mig Herra/ Herra/ og gióred eige þad eg seige. [a] Þeir muni ei aller sem til mÿn seigia Herra/Herra/sñ ganga i Guds Ryke/helldur þeir sem gióra Vilia mÿns Foðurs i Himnenum. Marg- er munu til mÿn seigia a þeim Deige. Her- ra/ Herra/ Hoþū vier ei spaad i þÿnu Na- fne/ hoþum vier eige i þÿnu Naþne Dióþ- la wtreked/ hoþum vier ecke i þÿnu Naþne marg Kraptaverk gierdt? Og eg mün þa

Jaata fyrer þeim/ ad alldrei þeckta eg ydur/ fared fra mier aller Illgiørda Menn. [a] Fyrer þvi [c] huør han kiemur til mijn/ [f] og heyrer þesse mijn Ord og giører þau/ [c] þan mun eg syna ydr/ huørium han er lijkur/ [a] hønum lijke eg vid eirn vitran Man [f] sem uppbigde Hws sitt/ [c] og grof diupt & sette þess Grundvøll a Hellubiarge/ [a] Enn er Steipedøgg giørde & Vatnsflooded kom og Vindar bliesu /og dundu a Hwsenn/ [c] mætte þad ei hræra vr Stad/ [a] og Hwsed fiell ei ad helldur/ [f] þviad þad var grundvallad yfer Hellunna. [a] Enn huør han heyrer þesse mijn Ord [f] og giører þau eige / han er lijkur þeim [a] faavijsum Mane/ [f] sem bygde Hws sitt [a] a Sande/ [c] a Jordu an Grundvallar. [a] Þa nu Steipedøgg giørdest og Vatnsflooded kom/ & Vindar bliesu & dundu a þvi Hwse/ [f] þa fiell þad [c] ja fyrnart. [f] Og Hrapan þess Hwss vard myk el. [a] Og þad skiede þa JEsus hafde lyktad þessa sijna Rædu/ ad Foolked furdade hans Kienning/ þviad han predikade volldugleg/ og eige lyka sem hiner Skriftlærdu.

# XIII Capitule.

Um Lækning eins Spitelsks Mans/ er skiede epter endada þessa Predikun / Item um Lækning Ploons Hundradshøfding tans i Capernaum/ og Uppvakning Sonar Ekiunnar af Naim.

Matth: 8. Luc. 7.



EN [c]Þa han̄ hafde lyktad sijna Rædu fyrer Folkenu/ [a] gieck hn̄ ofan̄ af Fiallenu/og margt Folk fylgde hønum epter. Og sia ad Lijkþ



þrar Madur kom/ tilbad hn̄ og sagde/ Herra/ ef þu villt þa kantu vel ad Hreinsa mig. Og

 Jesus

JEsus wtrietti syna Hønd/snart hañ og sagde
Eg vil/vertu Hreirn/ og jafnsnart vard hañ
af sinne Lykþrá hreirn. Og Jesus sagde til
hañs/ Siá til/seig þad ei neinum/ helldur far
þu og syn þig Kieñemañenum/ z offra þa Gáf
fu/er Moyses baud/til Vitnisburdar yfer þm.
[c] OG JEsus gieck til Capernaum/enn Þion
eins Hundradshøfdingia lá Daudsiukur/
huør ed hønum var miøg giedfelldur/ og er hñ
heyrde af JEsu/sende hñ þa ellstu af Gyding
um til hañs/og bad hañ ad koma/ og giøra siñ
Þioon heilbrygdañ. Eñ er þeir komu til Jesu
bádu þeir hañ kostgiæfelega/og søgdu/ Verdur
er hañ þess/ad þu veiter hønum þad/ þviad hñ
elskar vora Þiood/og hefur uppbygdt fyrer oss
vort Samkunduhws / Þa gieck Jesus med þm
þadañ/ Og þa er hañ var nu ei langt fra Hws
enu/ sende Høfudsmadureñ Vine til hañs/ og
liet seigia hønum/ O Herra þiá þig ei / þviad
eg em ei verdur ad þu gánger under mitt Þak.
Þar fyrer hef eg og eige reiknad sialfann mig
Verdugañ til þyn ad koma. Helldur mæll þu
eitt Ord/ og verdur miñ Þioon heill.

[a] Enn þa JEsus gieck jñ i Capernaum/
kom Høfudsmadureñ til hañs/ bidiande hañ og
sagde/ Þioon miñ liggur heima/og er Iktsiuk
ur og kvelst kunglega. Jesus sagde til hañs/eg
vil koma og lækna hañ/ Høfudsmadureñ svar
ade og sagde/Herra/ eg em ei Verdugur ad þu
gánger under mitt Þak / Helldur seig þu eitt
Ord / og mun miñ Þioon heilbrygdur verda/
þvi

lē, þvi eg em Madur Yꝼervalldenu undergiefꝼ
ein/ hafandi under mier Strydsmeñ/ og nær eg
seige þessum far / þa fer hañ / og ødrum kom/
þa kiemur hañ / og Þioon mynum giør þetta /
og þa giører hañ þad. Þa JEsus heyrde þet-
ta/ undradest hañ [c] yfer hønum/ snerest vid
[k] og sagde til Foolksins er hønum epterfylgde
[a] Sañlega [k] seige eg ydur / slyka Trw hefe
eg ei funded i Jsrael. [a] Eñ eg seige ydr/ad
marger munu koma af Austre og Vestre/ og sit
ia til Bords med Abraham Jsaach og Jacob
i Himnarýke. Enn Rýkesins Børn munu ver
da wtrekeñ i hin ytre Myrkur / þar vera mun
Oop og Tañagnystran. Og JEsus sagde til
Høfudsmañsins/ gack hiedañ / verde þier epter
þvi sem þu Truer. Og hañs Þioon vard heill
a þeirre sømu Stundu.

[c] Enn er þeir sem voru wtsender/ komu apt-
ur til Hussens/ fundu þeir þañ Þioon er siukur
hafde vered/ Heilbrygdañ.

[ ] OG þad skiede epter þad/ad hañ gieck i ei-
na Borg sem hiet Naim/ & marger hañs
Lærersveinar fylgdu hønum og Fiølde Foolks.
Enn er hañ nalægdest Borgarhlided/ Sia/ þa
var framlideñ Madur boreñ wt/ einka Sonur
sinnar Moodur/ og hun var Ekkia. Og mikell
Borgarmugur gieck wt med henne. Og er DR-
OTTenn leit hana / hrærdest hann Myskunar
þar yfer/ og sagde til hennar/ Gret þu ei. Og

hann gieck þar ad/ og Ahrærde Børurnar/en þeir ed bæru stoodu vid / og hann sagde Ungmenne/eg seige þier/rijs upp. Og sa resste sig upp er framliden var/ og took ad mæla:



og hann gaf hann hans Moodur. Enn yfer alla þa kom Otte/ lofudu Gud og søgdu/ Spamaal ur mykell er a medal vor upprisenn / og Gud hefur vitiad sijns Lyds. Og þesse Saga barst wt af hönum um allt Juda land/ og um øll kryng umliggiande Lønd.





# XIV Capitule.

**Vm Sendeboð Johañis wr Myrkvastof unne til Christum/ og Svar Christi þar uppa. Item loflegur Vitnis burdur Christi um Johañem.**

Matth. 11. Luc. 7.

ALlt þetta [c] kunngiordu Johañi hanns Lærersveinar. [a] Enn þa Johañes heyrde i Bøndunum Verk enn Christi/ [c] kallade hañ tvo af



synū lærersveinū til syn/ [f] z sende þa vt til Jesū/ z liet seigia hønū. Ertu sa er koma skal eda eigum vier ad vænta nockurs añars? [e] Ek

er þeir Men̄ komu til han̄s/sǫgdu þeir/Johan̄
es Skijrare sende ockur til þijn/og liet seigia þ
er/ertu sa sem koma mun/ edur eigum vær ann
ars ad bijda? En̄ a þeirre sǫmu Stundu lęk
nade han̄ marga af Sootttum synum og Mein
um/og af illum Aundum/ og mǫrgum Blindū
gaf hn̄ Syn. [f] Og JEsus svarade og sagde
til þeirra/ Farid þid og kun̄gisred Johan̄e hv
ed þier hafed sied og heyrdt/ þad Blinder sia/
Hallter ganga/ Lijkþraer Hreinsast / Dauffer
faa Heyrn/ Dauder Vpprijsa/ Fatækum bodast
Evangelium̄/z sæll er sa sm̄ ei Hneyxlast a mier.

[f] EN̄ er Sendebodar Johan̄is voru burt
geingner/ hoof JEsus ad seigia Foolk
enu af Johan̄e/ Hvad foorut þier wt i Eydemꝯ
rk ad sia? Eda villdud þier sia Reyr af Vin
de skiekenn? Eda hvad erud þier w:geingner ad
sia? Villdud þier sia mann i miukum Klædum?
Siaed / [a] þeir ed minkan̄ Klædnad ha
fa [e] og i dijrmætum Klædum og Vellystingum
lifa/ [f] eru i Konganna Hwsum. Eda Hvad
erud þier wtfarner ad sia? Villdud þier sia
eirn Spaman̄? Enn eg seige ydur þan̄ er mey
re er enn Spaman̄/ þviad han̄ er sa / af huørt
um skrifad er/ Sia/eg sende mit Eingel fyr
er þijnu Auglite/sa ed tilreida skal þin̄ Veg fy
rer þier. [a] San̄lega seige eg ydur/ a medal
allra þeirra sem af Konu eru fædder/ [e] er ei
ngen̄ Spamadr [a] uppkomen̄/ sa meire sie enn
Johan̄es Skijrare/ [f] enn sa minne er i Himna
rijke er hønum meyre. [a] Enn i fra Døgum
Johan̄is/og allt til þessu er komed/þoler Him

naryke Offureste / & þeir sem Offurefled giøra/
hremā þad til syn/ Þriad aller Spaamen̄ & Løg
maaled Spaadu til Johan̄em/ og ef þier villed
þad medtaka/ þa er han̄ Elias/ sa er koma skal/
Huør Eyru hefur ad heyra/ hn̄ heyre. [c] Og
allt þad Foolk er tilheyrde/ og lyka Tollheimtu
menn riettlætte Gud/ & lietu skyra sig med Sky
rn Johan̄is / Enn Phariseí og Løgspekingar
forsmaadu Guds Raad i moote sialfum sier/ sem
lietu eige skyrast af hønum.

[c] Enn Drotten̄ sagde / [f] vid hvad skal eg
jafna Mønum þessarar Kinslóodar? [c] Huø
riu eru þeir lyker? [f] Børnum þeim eru þeir
lyker sem sitia a Torge/ & hroopa [a] til sinna
Stallbrædra [c] huør til an̄ara [f] seigiande/
Vær høfum fyrer ydur i Pypur blaased/ og þier
villdud eige dansa/ vær kuldum ydur vorar
Rauner/ og þier villdud eige græta/ Þriad Jo
han̄es Skyrare kom / at eige Braud nie drack
Vyn/ þo seige þier/ hann hefur Diøful/ Mann
sins Son er komen̄/ etur og dreckur/ og þier seig
ed/ Siaed sa Madur er eirn Etare og Vyndry
ckiu Madur/ Vinur Tollheimtuman̄a og Ber
syndugra / og Speken̄ hlytur so ad riettlætast/
af [c] Ollum [f] synum Børnum.

[a] ÞA took han̄ til ad ævyta þær Borger / i huørium giørd voru flest hans Kraptaverk / þad þær høfdu ei betrad sig. Vei þier Chorazin. Vei þier Bethsaida / þviad ef i Tyro og Sidon hefde giørst soddan Kraptaverk/ sem hia ydur hafa giørdst/ hefdud þier fyrer

 løngu

løngu i Sek og Ausku/ Ydrau giørt. En þo seige eg ydur/ad Tyro og Sidon mun bærilegt ra vera a Deige Doomsins/ helldur enn ydur. Og þu Capernaum sem allt til Himens ert upp hafen/ munt nidur þryckiast allt til Helvijtis. Þviad ef i Sodoma hefdu þau Kraptaverk giørst/ sem hia þier hafa giørd vered / þa stæde hun en i Dag. En þo seige eg ydur þad/ ad bæ relegra mun vera Lande Sodoma a Doo madeige enn þier.

# XV Capitule.

Packargiørd Christi þyrer Auglijsing Evangelij/ hñs huggunarsama Tilbod/ & Aplausn þeirrar Bersyndugu Konunnar i Hwse Sim onis Phariseara.

Matth: 11. Luc: 7.

A Sama (a) Tijma andsvarade JEsus og sagde. Eg prijsa þig Fader og Herra Himens og Jardar / ad þu duldet þetta þyrer Spekingum og Forvitringum / og openbe adet þad Vngbornum. Ad sonu Fader þvi ad so var þad þægt þyrer þier. Aller Hlut er eru mier i Walld giefner/af mijnū Fodur/og eingeñ kieñer Soneñ nema Faderenn/ og eing.

og eingeñ kieñer Fødureñ nema Sonurenn/ og hvørium ad Sonureñ vill þad opeñbera.

Komed til mijn aller þier sem ervided/ og Þunga erud hladner/eg vil Endurnæra ydur. Taked a ydur mitt Ok/ og læred af mier/ þvi eg em hoogvær / og af Hiarta lijtelæt-ur/ z munud þier Hvijld finna Sælum ydrum. Þviad mitt Ok er sætt/og mijn Byrde er liett

[c] EN einn af Phariseis bad hañ ad hann æte med hønum/ og hañ gieck iñ i Pharisearans Hws/og settest til Bords. Og siaa/ ad Kona var su i Borgeñe/ ad Bersyndug var/og er hun visse ad JEsus sat til Bords i Pharisearans Hwse/ hafde hun þangad Alabastur m z Salve. Og for a Bake til Foota hañs/ z græt/ og took ad væta hañs Fætur med Tarum/ og ad þurka þa med sijnu Høfudhare/ z kyste a hañs Fætur/og smurde þær med Salve. En þa sa Phariseus sa þad/ sem hønum baud iñ/ mællte hañ med sier og sagde/ ef ad þesse være Spamadur/ þa visse hañ hvør og hvilijk være su Kona er a hønum tekur/ þviad hun er ein Bersyndug Kona. JEsus svarade og sagde til hañs/Simon/ eg hefe nockud ad segia þier/ enn hañ sagde/ seig þu Meystare. Tveir Skulldamenn voru nockurs Okurmanns / einn var hønum skylldugur fimmhundrud Peninga / enn annar fimmtyger. Og er þeir høfdu ei ad gial-

allda/ gaf hañ þeim þad upp bꜳdum / seig nu huꜳr þeirra mun elska hañ meir? Simon svarade og sagde/ eg meina ad sa sem hañ gaf meyra upp/ Eñ hañ sagde til hañs/ þad wtskurdad er þu riett. Og hañ snere sier til Kvinnuñar og sagde til Simonar / sier þu þessa Konu? Eg gieck iñ i þitt Hws / og þu gafst mier eige Vatn handa mynum Footum/ enn þesse vætte mynar Fætur med Tꜳrum / og þurkade med sinu Hꜳfudhꜳre. Koss gafstu mier engrann/ enn þesse/ sydañ hun gieck hier jnn / hefur hun eige linnt ad kyssa mynar Fætur. Mitt Hꜳfud smurder þu eige Vidsmiøre / enn þesse smurde mynar Fætur med Salve. Fyrer þad seige eg þier/ ad heñe fyrergiefast margar Synder/ þui ad hun elskade myked/ enn þeim sem minna fyrergiefst / hañ elskar minur. Og hañ sagde til hennar/ þier eru þynar Synder fyrergiefnar. Þa tooku þeir til/ sem vid Borded sꜳtu hia hønum og søgdu med sialfum sier / Huer er þesse sa er fyrergiefr Syndernar? Enn hañ sagde til Konunnar/ þyn Trw giørde þig Hoolpna/ far i Fride.

# XVI Capitule.

Um Yferferd Christi i gegnum Borger og Kauptun/ z hañs Apturkomu til Capernaum i sitt Hws/ hvar hañ wtrak Diøful þañ er Blindur var og Mꜳllaus/ Item um þa Rꜳdu er þar wt af reis.

Matth: 12. Marc. 3. Luc: 8.



G [c] Þad skiede epter þad han þe
rdadest i gegnum Borger og Kaup
tun/ predikande og bodande Evan
gelium af Gudsʀyke/og þeir tolf
med hønum/ Og nockrar þær Kon
ur sem han hafde grædt af ohreinum Aundum/
og Sootterþerlu/ sem var MAria su er hiet
Magdalena/ þra hujørre ad sio Diøflar høfdu
utfared. Og Johaña Hwstrw Chusa Forsio
onar Mañs Herodis/og Susaña/ z margar ad
rar þær hønum veittu af synum Eignum. [b]
Og þa er þeir komu til Herbergis / kom Foolk
ed eñ samañ aptr/ so ad þeir gaatu eige matust
fyrer þvi. [a] Þa var til hañs hafdur Diøf



uloodur Madur/ sa er Blindur var og Maall
laus/ og hañ læknade hañ/ so ad hiñ Blinde og
Dumbe talade og sa/ Og allt Foolked ottadest
og sag

og sagde/ er þesse ei Sonur Davids? Enn er Phariseí heyrdu þad/ sögdu þeir/ eige rekur þes se Diöful wt ödruvijs nema fyrer Belzebub Diöfla Hösdingia. [b] Og þa er þeir heyrdu þad/ sem med hönum voru/ geingu þeir wt og villdu hamla hönum/ þviad þeir sögdu ad hann munde ganga af Vitenu. Enn hiner Skrift lærdu sem ofan fra Jerusalem voru komner/ sögdu/ han hefur Belzebub/og fyrer Diöfla Höfdingia þa rekur han Diöfla wt.

EN [a] JEsus fornam þeirra Hugrenn[ingar]. [b] Og ad þeim samankölludum / sagde hann i Epterlijkingum til þeirra/ Huornenn kan eirn Sathan annan wtreked? [c] Huort Rijke sem i sialfu sier er sundurþyckt mun eyd ast/ og huor su Borg/edur Hws sem i sialfu sier er sundurþyck kan ei staded. Ef eirn Sathan rekur annan wt/þa er han sundur þyckur moote sialfum sier/og kan hans Rijke þa ei staded/ [b] helldur er bad wtgiordt um han. [a] Og ef eg wtrek Diöfla fyrer Bel zebub/ fyrer huorn verda þeir þa af ydrum Börnum wtrekner? Af þui verda þeir og ydrer Doomendur. Enn ef eg wtrek Diöfla med Guds Anda/þa er Guds Rijke til ydar komed. [e] Edur huornen kan nockur inngeinged i hins Offluga Hws/ og hans Bws-

blutum

hlutū i burt rændt/utan so sie hñ binde tad ur hiñ Vfsluga/og ræne sijdañ hañs Hws.

[a] Huor hañ er eige med mier/sa er a moote mier/og huor eige med mier safnar/sa sund urdreifer. Fyrer þvi seige eg ydur [b] Sañ lega/ [c] ad allar Synder fyrergiefast Mañ anna Børnum/og eirneñ Gudlastaner/ þær þeir lasta Gud med. Eñ sa er lastar Heilag añ Anda/ hañ hefur øngva Fyrergiefning [a] Og huor hañ talar nockud i moote Mañ sins Syne/ hønum mun fyrergiefast. Enn huør ed talar nockud a moote heilogum Anda/hønum mun huørke fyrergiefast i þessum Heime nie ødrum [b] ad eilyfu/helldur verd ur hañ sekur eilyfs Dooms/ þvi þeir søgdu hañ hefur øhreinañ Anda. [a] Añad huort setied gott Trie og mun Avøxturen goodur ellegar setied vondt Trie/og mun Avøxtur enn vondur/ þviad af Avextenum þeckest Tried. Þier Nødrukyn/ Huornen meiged þi er gott mæla / a medañ þier erud vonder? Þad sem Hiartad er fullt af / þad flytur tut af Muñenum. Goodur Madur fram fli tur gott af goodum Siood syns Hiarta/ eñ vondur Madur af vondum Siood syns Hia

rta fram

atta þrainglitur vondt. Enn eg seige ydur/ ad hvøriu þvi þarfleingu Orde/ sem Menner tala/ munu þeir Reikningskap giora a ydsta Doome. Ad þijnu Ordu mu̅tu rjettlatast/ og ad þijnu Ordu mu̅tu fordæmast.

Þa svørudu nockrer wr af Skriftlærdum og Phariseis og sǫgdu/ Meystare/ vier villdum Teikn af þier sia. Hann svarade og sagde til þeirra/ Þessa vonda og hoorunar sama Slecte leitar Teikns / og þvi mun ei Teikn gefast/ nema Teikn Jona Spamanns. Þviad so sem Jonas var i Kvide Hvalsins þria Daga og þriar Nætur/ so mun Mannsins Son vera midt i Jordu/ þria Daga og þriar Nætur. Menn Ninive Borgar munu uppriisa a efsta Doome/ med þessare Kynslod/ og munu hana fordæma/ þviad þeir giordu Yoran epter Predikun Jone. Og sia/ hier er meire en̅ Jonas. Drottningin af Sudre mun uppriisa a efsta Doome med þessare Kynslood / og mun hana fordæma/ þviad hun kom af Endemorkum Jardar/ ad heyra Speke Salomonis. Og sia/ hier er meire en̅ Salomon. Nær ohreinn Ande er farenn wt af Mannenum/ reikar hann um̅ þur-

ra Stade

ta Stade/leitande Hvÿldar/ og fiñur eige.
Þa seiger hann/ aptur vil eg snwa i mitt
Hws/þadañ eg vt foor/ og nær hañ kiemur
fiñur hñ þad toomt/ soopad og prÿdad. Þa
fer hañ burt og tekur sier adra Anda med si
er/ þeir ed verre eru eñ sialfur hañ / og nær
þr eru innkomner/byggia þeir þar/ & verdur
þa þess Mañs sijdara verra þvi hinu fyrra.
So mun og skie þessa vonda Kinslood.

SEm hañ var enn þetta ad tala til Foolksi-
ns/ siaa/ [c] ad Mooder hñs og Brædur ge
ingu fram ad/ [a] stoodu fyrer vtañ og villdu
tala vid hañ/ [c] eñ kuñu ecke ad komast til hñs
fyrer Folkenu/ [b] sendu (þvi)til hans kallan
de a hañ / og Foolked sat kryngum hñ/ [c] og
hønum var þad undervÿssad / Mooder þÿn og
Brædur þÿner standa þar [h] wte [b] spyria ad
þier [c] og vilia sia þig [a] og tala vid þig. [h]
Eñ hñ svarade og sagde til þeirra/ [e] Huer er
mÿn Mooder / og huørier eru mÿner Brædur?
[b] Þa leit hañ um̃ sig til Lærersueinanna er sa
tu i kryngum hañ [a] og riettte wt sÿna Hønd yf
er sÿna Lærersueina og sagde / Siaed / þar er
mÿn Mooder og mÿner Brædur/ þviad huør hñ
giörer Vilia mÿns Fødurs sem a Himnum er/
[c] og þeir ed Guds Ord heyra og giøra/
[h] þeru mÿn Mooder/mÿn Syster
og miñ Brooder.

# XVII Capitule.

Su merkelega Predikun Christi sem hann framsette vid Siaafarsijduna af Skipenu havande inne ad hallda Epterlijkingar. 1 Af Saadenu sem fiell i fernslags Jørd. 2 Af þvi er sialfkrafa Ooxe. 3 Um Illgresed. 4 Um Mustardskorned. 5 Um Surdeiged.

Matth. 13. Marc. 4. Luc. 8.

A Þeim [a] sama Deige/ gieck JEsus wt af Hwsenu z sette sig nidur vid Siooenn. [c] En þa er margt Foolk var samannkomed / og þeir skundudu til hans wr Stødunum/ [b] took hann enn aptur til ad kienna þeim vid Siooenn. [c] Þar safnadest samann margt Foolk til hans / so ad hann vard ad stijga a Skip og sat [b] a Sioonum/ [c] og allt Folked stood þar a Lande vid Siooenn [a] i Fiøre unne/og hann talade til þeirra [b] og Predikade leinge fyrer þeim i Epterlijkingum/ z i sinne predikun þa sagde hann til þeirra [c] i eirne Epterlijkingu. [b] Heyred til/

[a] Eirn Saadmadur gieck wt ad saa [c] sijnu Saade/ [b] og þad vard [a] i þvi hann saade/ ad sumt fiell utann hia Veigenum /

[c] og vard boottroded [1] og þa komu Fuglar Himens og atu þad upp. Enn sumt þiell i grijtt Akurlende/ [b] þar þad hafde ecke mi fla Jord/ og ran þliootlega upp / þviad þad



hafde ongva Jardardypt/ [e] og þa er Sool en gieck upp/ skrælldest þad [f] og visnade/ [c] af þvi þad hafde ecke Root nie Vokva. [1] Og sumt þiell a medal Þyrna/ og Þyrnen spruttu upp med og kiæfdu þad / [b] og þad bærde ongvan Avoxt/ [1] og sumt þiell i gooda Jord og bærde Avoxt / [b] uppvoox og þriooþgadest/ [c] og sumt bærde þryttugþalldan/ og anad sextugþalldan/ og sumt [1]

hundradfalldan Avöxt. [c] Þa hann talade þetta, kallade hañ z sagde til þeirra, [t] Hvör er hañ hefur Eyru ad heyra sa heyre.

[b] OG þa hañ var einsamall, [a] geingu hñs Læresveinar til hañs og sögdu / Fyrer hvi talar þu til þeirra i Epterlijkingum? [5] Og þeir sem hia hönū voru med þeim tolf / spurdu hñ ad þessare Epterlijkingu / [c] hvör hun være. [1] Eñ hñ [a] svarade [1] z sagde til þeirra. Ydur er þad gieſed ad vita Leyndardooma Himmarijkis / [c] enn hinum [c] ödrum [h] sem þar eru fyrer utañ [a] er þad eige giefed / helldur [b] skier þad allt [h] i Epterlijkingum / so ad þeir siaande [b] siae þad / [h] og skinie þo eige / og heyrande [b] heyre þad / [h] og underſtande þo eige. [5] So þeir snwest ecke / þad þeirra Synder eitt sin mætti fyrergiefast / [a] þvi hvor hañ hefur / hönum mun giefast so hañ gnoog hafe / enn sa sem ei hefur / af hönum mun og takast þad hañ hefur. Fyrer þvi þa tala eg til þeirra i Epterlijkingum / þviad med siaande Augum siaa þeir eige / og med heyrande Eyrum þa heyra þeir eige / þviad þeir skilia þad ei. Og a þeim mun uppfyllast Spaadoomur Esaiæ / er seiger / med Eyrunum munud þier

heyra

heyra/ og mūud pier þ ei skilia/ og mŭ sionȥoe Augū munud pier sia/ og ei skyna/ Þvi ad þessa Foolks hiarta er forhardnad/ og þe irra Eyru eru þunghend/og þeirra Augu samanlykiast / so ad þeir eigi einusiñe med Augunum sioe / og med Eyrunum heyre/ nie med Hiartanu skilie til ad leidrietta sig so ad eg hialpe þeim.

Enn sæl eru ydar Augu/ þad þau sia/ og ydar Eyru þad þau heyra. Sañarlega seige eg ydur/ad marger Spameñ og Rietl lœter/þystust ad sia hvad þier siaed/og haþa þad ecke sied/ og ad heyra hvad þier heyred og haþa þad eige heyrdt.

[b] Og hañ sagde til þeirra/ kuñe þier ecke ad skilia þessa epterlyking? Hvorneñ munud þier þa kuña ad skilia hinar allar? [a] Aþ þui heyred Eþterlykinguna um Sadmañeñ/ [c] þui þetta er Eþterlykingeñ. [b] Sad madureñ sæer Ordenu/ [c] Sæded er Guds Ord/ [h] eñ þesser eru þeir sem utañ hia Veigenum eru/ huar Orded verdur sad [c] sem heyra þad/ [b] og þa þeir haþa heyrt þad/[h] kiemur Dioþulleñ [b] strax [c] eptera [h] og eimur burt Orded þad sad var i þeirs

ra Hiørtu/[c] ſuo þeir true eige og verde ho-
olpner/ [a] (þui) þa er nockur heyrer Orded
Rykeſins og underſtendur þad ej / kiemur
hiñ vonde og hripſar burt huad ſæd er i hŷns
Hiarta. [a] Eñ þad ſem i grytta Jord fiell
[c] a Helluñe eru þeir [1] ſem medtaka Or-
ded ſtrax med Fagnade þa þeir heyra þad/
enn hafa ønguva Root i ſier/ [c] helldur hall
da þeir vid [c] og trua [1] um ſtundarſa-
ker/ [c] eñ nær Hrellingar og Ofsookner he-
fiaſt fyrer Ordſins Saker / hneixlaſt þeir
ſafuſkioott [c] og falla fra a Freiſtingar
Tijmanum. [1] Eñ þad ſem var ſæd og fiell
a medal Þyrna / eru þeir ſem heyra Orded
[c] og velkiaſt i Sorgum Audæfum og Vel-
lyſtingum þeſſa Heims/ og [c] Ahiggia þeſ-
ſarar veralldar/ ꝛ Svikſeme Rijkedæmeſins/
[b] og adrar fleire Gyrnder iñgangande [1]
kiefia Orded/ ſo þad blijfur an Avaxtar/
[c] og þeir færa ønguañ Avøxt. [1] Eñ þad
ſem i gooda Jørd fiell/ eru þeir ſem heyra
Orded/ [b] medtaka þad [c] ꝛ hallda þui i
goodu ſidſømu Hiarta/ [a] underſtanda þad
[1] og færa Avøxt [c] i þolennmæde/ [c]
ſumer Þrytugfalldañ/ſumer ſextugfalldañ/
ſumer

ſumer hundradfalldañ. [b] Og hañ ſagde til þeirra/ kueikeſt nockud Lioóſed til þeſſ ad þad ſetieſt under Mæleaſk Bord edur Beck? Aungvaneigeñ / [h] Helldur ſetur hañ þad i Kierta halldeñ [c] ſo þeir ſm̄ þar iñgánga ſiae Lioóſed / [h] þvi eckert er ſo huled ad eige verde opiñbert / og eckert ſo leẏ nt ad þad eige kuñgioreſt og kome i lioos / [b] huer hañ heſur Eẏru ad heẏra ſa heẏre. Og hañ ſagde til þeirra/ ſẏrer þui giæted ad/ [b] huad [c] og huorneñ [h] þier heẏred/ [b] med þeim Mæler er þier mæled vt / þa mæleſt ẏdur iñ/ og ẏdur ſem þetta heẏrad ſkal vid aukaſt/ [h] þuiad þeim er heſur hønum mun gieſaſt/ og huar hellſt eckert heſur ſra hønum mun burttakaſt eirneñ þad hañ meinar ſig haſa.

[b] Og hañ ſagde/ Guds Rijke er ſo vared ſem þa Madur kaſtar Fræe i Jordena / og ſoſnar/ og hañ ſtendur upp Nott og Dag/ eñ Fræed grær og vex vpp/ ſo ad hañ veit eige/ þuiad Jordeñ ſærer aſ ſier ſialſſre/ i ſẏrſtu Graſed/ þar næſt Axed/ og ſo þar næſt fullt Hueite i Axenu/ og er þad heſur ſramleids Avorteñ / þa ſender hañ ſtrax Kornſigdena/ þuiad

na / þuiad Kornskurdar Tymenn er þa.
(a) Adra Epterlijking lagde hañ þeim fyrer og sagde / Himnarijke er lijkt þeim Manne / sa er sæde goodu Sæde i Akur siñ. Enn þa Meñ svaþu / kom hañs Ovinur z sæde Illgrese i bland Hueitesins / og foor i burt. Eñ er Sæded spratt upp og bar Avoxt / þa auglystest og Illgresed. Þa geingu Þienarar ner til Hußhoodursens z sogdu / Herra / sæder þu ej goodu Sæde i Akur þiñ / huadañ kiemur honum þa Illgresed? Hañ sagde til



þeirra / þad hefur Fiandmadureñ giort / þa sogdu Þienararner / villtu ad vær forum og utlesum þad? Hañ sagde nei / so ad þier upprsted ecke hueited under eins nær þier utlesed Ill=

sed Illgresed. Læted huortueggia vaxa asamt til Kornskurdar / og a Kornskieru Tijma skal eg seigia, til Kornskurdar Mañanna / lesed fyrst Illgresed samañ / og binded pad i Bindine til breñslu / eñ Hveitenu samañsaf ned i mijna Kornhlødu.

[a] Adra epterlijking lagde hñ fram fyrer pa [c] og sagde. [b] Huøriu skulum vier jafna Guds Rijke / edur vid huoriar Epterlijkingar viliū vier pvi samanlijkia? [a] Himnarijke er lijkt [c] einu Mustards-Korne pad eitn Madur toot og sæde i Akur siñ / hvad ed miñst er af ølra Sæda [b] a Jørdunne / pa pvi verdur i Jørd sæd / enn pa pvi er sæd / vex pad upp / [c] og er øllum Kaalgrøsum stærra / [a] verdr eitt Trie [b] og fær mikla Kvistu [c] so ad fuglar Himens kōa & kuña ad byggia ūder pess [a] Kvistū & [b] Skugga.

[a] Eina adra Epterlijking talade hñ til peirra. Lijkt er Himnarijke Surdeige / pad ein Kona tok og blandade vid prim Mælera Miøls / par til pad syrdest allt i giegn.

PEtta allt talade Jesus i Epterlijkingum til Foolksins / [b] og i slijkum mørgum Epterlijkingum kiende hañ peim Orded / epter pvi se[…] peir pad heyrdt gætu / [a] og fyrer utañ Epte[…]

lyktingar talade hñ ecke til þeirra/[b]eñ fierdeilis
þa lagde hñ þad allt wt þyrer synū Lærisvein-
um/[a] so ad uppþylltest þad sagt er þyrer Spa-
mannenn/þañ er seiger/ miñ Muñ vil eg uppl-
ukai Epterlykingum/og heimuglega Hlute nuun
eg wtmæla þra Upphaþe Veralldar.

# XVIII Capitule.

Utlegging Epterlykingarennar um Illgresed/Item adrar Epterlykingar. 1. Um þañ þoolgna Fiesiood. 2. Um Perlluna. 3 Um Neted.

Matth. 13.

DA liet JESus Foolked þra sier þara/ og kom heim/og hañs Lærisveinar geingu til hañs/z sögdu/wt þyd þu oss þa Epterlyking / um Illgresed a Akrenum. Hañ svarade og sagde til þeirra/hañ sem sæer goodu Sæde er Mañsins Sonur. Eñ Akureñ er Heimureñ/gooda Sæded eru Rykesins Børn/enn Illgresed eru Børn þess vonda. Ovinureñ sa þeim sæde er Dioþulleñ/ eñ Kornskiertiimeñ er Ending Veralldar/ Kornskurdar-Meñerner eru Einglarner/ Þvi lyka sem nu erdur Illgresed wtlesed/og i Ellde brent/ o mun og skie i Endo þessarar Veralldar.

Mannsins Son mun vtsenda sijna Eingla/
og þeir munu samansafna vr hans Rijke oll
um Hneyxlunum/og þeim er Rangindè giø
ra. Og þeir munu kasta þm̃ i Elldsins Ofn
þar mun vera Grætur og Tannagnijstran.
Enn þa munu Riettlæter lioma sem Sool
i Rijke Fodurs þeirra. Huor Eyru hefur
ad heyra/ sa heyre.

ENN aptur þa er Himnarijke lijkt einum
foolgnū Fiesiood ä Akre/huern ed Mad
ur fann og falde hann/ og af þeim Fagnade
sem hann hafde yfer honum/ gieck hann burt/
og sellde allt hvad hn̄ hafde/ og keypte hann
sama Akur.

OG enn aptur er Himnarijke lykt þeim Kau
pmanne / er ad goodum Perlum leitade.
Og þa hann fann eina forkostulega Perlu/
foor hann og sellde allt hvad hann hafde/ og
keypte þa somu.

Og enn aptur er Himnarijke lijkt Nete þui
sem i Sioo var kastad/ med huoriu/ af
ollu Fiskakyne dreiged verdur. Enn nær þad
er fullt/draga þeir þad i Fioruna/sitia sijd
ann og samanlesa hina goodu i Kierolld /
enn vondum kasta þeir vt. So mun og skie
i Enda

i Enda Veralldar/ ad Einglar munu utfa-
ra/ & hina Vondu fra Rietlætum skilia/
Og þeim munu þeir kasta i Elldsins Ofn/
hvar vera mun Oop og Tannagnistran. Og
JEsus sagde til þeirra/ hafed þier allt þet-
ta understaded? Þeir sogdu/ ia Herra. Þa
sagde hann. Fyrer þvi huør sa Skriftlærdur
sem til Himnarijkis mentadur er/ hann lijkest
þeim Hwsbodur sem frambar af sijnum Fiar-
siood nytt og gamallt.

## XIX Capitule.

### Vm Reisuna Christi i Land þeirra Ga-darenorum edur Gergesenorum/ og hvad þar giørdest.

Matth: 13 & 8. Marc. 4 & 5. Luc. 8.

O[g] [a] þad skiede þa JESUS
hafde endad þessar Eptterlijkingar/
ad hann gieck þadan/ [c] og sama Da-
gs ad Kuølldi þa sagde hann til sinna
Lærefveina/ Førum vier hier yfer um
[a] Og er JESUS leit margt Foolk i kring
um sig / baud hann þeim ad þeir fære yferum
hinu meigenn Siofarens / og eirn Skriftlærdur
gieck ad & sagde til hans/ Meystare eg vil fylgia
þier hvort þu fer/ JEsus sagde til hans/ Re-
far hafa Holur/ og Fuglar Loptsens Hreidur/

eñ Mañſens Son hefur eige huar hañ ſitt Høf
ud ad hneige. Og eirn añar af hañs Læreſvei
num ſagde til hañs/ Lavardur/ lofa mier fyrſt
ad fara og grefstra Fødur miñ/ JESVS ſag
de til hañs/fylg þu mier epter/ z lát þa Dau
du grefstra ſijna Daudu.

[b] Og þeir forlietu Folked / [e] eñ hañ ſtie
a Skip / og hañs Læreſveinar fylgdu hønum/
[c] þa ſagde hañ til þeirra/ Førum vær yfer um
Siooeñ/og þeir ytu fra Lande/(b) þar voru
og fleyre Skip. (c) Eñ er þeir foru yfer um/
ſofnade hañ/(a) og ſia/ mikell Stormur giør
deſt i Sioonum/ (b) og Huirfilvindur/ ſo Byl
giurnar fiellu yfer þa og (b) Skiped / og þad
fylltest upp/(c) og þeir voru ſtadder i ſtoorum
Voda/ (b) eñ hañ ſialfur var i Skutnum / og
ſvaf a einum Kodda. (f) Læreſveinarner gein
gu til hañs z vøktu hañ upp/ ſeigiande (c) Mey
ſtare/ meyſtare / vær forgaungum/ (b) hyrder
þu ecke um þad ad vier fortynunſt? (a) Herra
hialpe þu oſſ/þa ſagde hañ til þeirra / huad
hrædeſt þier ſo / þier lytiltruader ?

[i] Og hñ reis upp/haſtade a Vindenn z Sioo
enn/[b] og ſagde til Siafarens / þagna þu og
vert hlioodur/og Vindeñ lægde/ [c] og Vatne
bylgiurnar ſefudust/[l] og þar vard Logn myk
ed/ [b] hañ ſagde til þeirra / þvi erud þier ſvo
hrædder/edur Hugrin giegner þad ad þier hafed
øngva Trw? [c] Hvar er ydar Trw? [b] Og þe
ottudust næſta miøg / [a] og Meñerner undrud
uſt [e] ſeigiande ſyn a mille/ [b] huør vid añañ

(a) Huilike

[a] Hvilykur Madur er þessi/[c] þvi hañ bydur
Vinde og Vatne/[i] og þaug hlyda hønum? [h]
Og þeir sigldu og komu til Bygdar Gadaren-
orum/hinumeigeñ Siafareñs/ [c] huør ed ligg-
iafngiegnt Galilea. [h] Og þa hñ stie a Land
[b] af Skipenu/ þa hliop strax i moote hønum
wr Grøfum framlideña Manna / einn besetenn
Madur af ohreinum Anda / (sem var) wr [c]
Borgeñe og haft hafde Diøfla um̃ langañ Tij-
ma/og klæddest eige Føtum/var og eige i Hws-
um/ helldur [b] hafde sitt Hibyle i [h] Daudra
Mañа Grøfum/[b] og eingeñ fieck hañ bunded
og ei med Vidium / þvi hañ hafde opt bunden
vered med Fiøtrum og Vidium/ og hafde Vidi-
iurnar af sier slited/ og Fiøtureñ i sundur brot-
ed/og eingeñ fieck hañ tamed/og allt iafnt Nætt-
ur og Daga var hañ a Fiøllum / og i Daudra
Mañа Grøfum / kallande og lemiande sig med
Grioote. (h) Eñ er hañ leit JEsum(h) alle-
ngdar/hliop hañ þangad/(h) z fiell fram fyr-
er hønum/ kallade upp hærre Røddu og sagde/
Hvad hef eg med þig ad giøra JEsus Sonur
Guds hins hædsta? (c) Eg beide þig / (b) og
sære fyrer Gud/ (h) ad þu kvelier mig ecke/ (c)
þvi hann baud þeim ohreina Anda ad fara wt
af Mañenum / (c) einu hañ hafde um̃ langañ
Tyma hañ kvaled/ hañ var og (sem adur er sa-
gt) bundeñ med Vidium og i Fiøtrum vardveit-
tur/ eñ ad slitnum Bøndunum var hañ rekenn
af Diøflenum/ a Eydemørk. (b) JEsus spur-
de hañ ad og sagde/ Hvørt er Nafn þitt? Hañ

sagde

ſagde/ Legio er nitt heite/ þvi vær erū marger/ (c) hvlad marger Diøflar voru i hañ farner/ (h) og þeir bædu hañ (b) myklega ad hñ ræke þa ei burt wr þeirre Bygd/ (e) og eige ſkipade þeim ad fara i Vnderdiupeñ/ (l)eñ þar vár (a) langt i burt fra þeim/ (b) hia Fiøllunum/ (i) mykel Svynahiørd /h/ a Beit/ b og Diøflarner bædu hñ aller og ſøgdu/ a ef þu rekur oſſ wt/ l þa leif oſſ ad fara i Svynen/ og JEſus leifde þeim þad b ſtrax a z ſagde/fared burt/ b þa foru þeir ohreinu Andar ç Diøflarner i ut af mañenum og hlupu i Svynen / ı og Svynahiørden ſteigde ſier med myklum Þys i Sioo eñ b nær tueim þuſundū/ l z dreckteſt i Vatnenu

c Eñ er þeir ſau þad ſem Hiørdena geimdu huad ſkiede/ b flydu þeir / geingu i burt g z kunngiørdu i Borgena og upp a Landed a allt þetta. Þa geingu þeir ut ad ſia huad ſkied hafde/ og komu til JESV/ og c fundu Mañen af huørium Diøflarner høfdu utfared h ſitiande klæddañ og heilvita c til Foota JESV/ h og þeir urdu hræddér / eñ þeir ſem þad høfdu ſied b ſøgdu þeim huørneñ giørdt hafde vered vid hñ/ ſm af Diøflenū háfde ſeteñ vered/ e huørniñ hñ være ordeñ heilbrygdr/ b z ſo fra Svynunū. Og c allur Mugur Gadarenvrum umliggiande Landa/ ı bædu c ad hañ vike burt fra þeim/ b og fære wr þeirra Lands Alfum/ (c þvi ad þeir voru af myklum Otta halldner. Hañ ſtie þa a Skip og ſnere aptur / b og er hann ſtie a Skip/ took ſa til ad bidia hañ er af Diøf

lønum

Iønum hafde ſeteſt vered/ c og af hugrium þeir høfdu wtfared/ h ad hañ mætte vera hia hønum/ b enn JEſus lofade hønum þad eige/ helldur b liet hañ fra ſier k og ſagde / far heim aptur b i þitt Hws/og til þinna/ k og kuñgiør þeim hvad myken̄ Velgiørning DROTtenn Gud hefur giørde þier b og vered þier lyknſamur/ k og hañ foor þadañ/ predikande c um alla Borgena b og þær tiju Borger / h hvad mykenn Velgiørning ad JEſus hefde hønum giørdt/ b og hvør Madur undradeſt þad.

N B. Matthens ſkrifar ad þeir Diøfulodu ſem mættu Herranum Christo i lande Gergeſenernimma; hafe vered tveir og miøg Olmer, ſo eingen hefde mátt fara um þann Veg. En hier af ſkal eingen ætla, ad Gudſpiallamennerner ſieu ei ſamhlooda, þvi þo ad Marcus og Lucas giete alleinaſta um eirn Diofulodan, þa neita þeir ecke ad þeir hafe fleyre mátt vera i fyrstunne.

## XX Capitule.

Um Apturkomu Christi wr Lande Gadarenorum / til Capernaum / og þad Gieſtabod ſem Mattheus giørde hønū i ſynu Hwſe Item um þa Spurning ſem lærefveinar Johañis z Phariſæorum ſettu þar fram/ um Føſtuna.

Matth. 9. Marc: 2. Luc: 5.

Þa

NA [a] stie han a Skip/og foor yfer um aptur/og kom i sijna Borg. [c] Og pad skiede so/ pa JEsus kom aptur/ad Foolked medtook han/og Levi tilbioo mikid Gietstabod i synu Hwse. [c] Og pad giørdest pa han sat til Bords i hans Hwse/[l] ad Marger Tollheimtumenn z Bersynduger/settu sig til Bords med JEsu og hans Læresveinum/ [b] pvi peir voru marger sim fylgdu hønum epter. [l] Og er hiner Skriftlærdu z Phariseí saau pad/[b] ad hn æt med Tollurum z Bersyndugum/[c] møgludu peir vid hans Læresveina og søgdu/[a] Pvi etur [b] og drecker [a] ydar Meystare med Tollheimturum og Syndurum. [l] pa JEsus heyrde pad/[e] svarade han [l] og sagde til peirra/Heylbrygder hafa ecki Læknarans Pørf/ Helldur peir sem kwker eru. [a] Enn fared pier burt / og nemid hvad pad er/at Myskun hefe eg Pocknan z eige at Offre. [l] Eg er komenn ad kalla Synduga til Yfirbotar enn ecke pa Riettlaatu. [b] Enn Johannis og Phariseana Læresveinar føstudu mijøg. [c] Pa komu Johannis Læresveinar til hans [l] og søgdu/ Hvar fyrer føstum vier og Phariseí so mijøg/ [c] z bidiunst fyrer/ [e] enn þijner Læresveinar fasta ei / [c] helldur eta z drecka? [b] JEsus sagde til peirra. Hvørnenn mat Brwdkaups Foolked syrgia [l] og fasta [l] so lenge sim Brwdgumenn er med peim? [c] Pier meiged ecki neyda Brwdkaups Foolked til ad fasta ai medann Bru-

wdgumenn er hia þeim. Eñ þeir Tymar munu koma ad Brwdgumanum mun fra þeim tekt verda/ og þa munu þeir fasta. Og hañ sagde eina Epterlyking til þeirra. Eingeñ setur Bot af nyu Klæde a gamallt Fat/ [e] þvi Boot eñ glidnar fra Fatenu [c] og rifur þad i sundur/og fellur ei vid hid gamla/ [e] & verda Slit eñ þa verre. [i] Og eingenn lætur nytt Vyn i forna Ledurbelge [a] edur Fløskur / [i] annars spreinger Vyned Belgena & þad spilltst/eñ Belgerner skiemast. [f] Helldr skal nytt Vyn lata ꜳ i nya Belge/og mun þa huørtveggia forvarast. [c] So er & eingeñ sm dreckr af hinu gamla ogville strax hid nya/ þviad hañ seiger/ hid gamla er Heilnæmara.

# XXI Capitule.

## Vm Vppvakning Doottur Jairi/ & Lækning þeirrar Bloodfallssiuku Kvinuñar.

Matth. 9. Marc. 5. Luc. 8.



Sem [a] hann var þetta ad tala vid þa/ [i] Sia/ þa kom [c] Madur sa er Jairus var ad Nafne/ & sa var Samkundubwsseñs Høfdinge. [b] Og þa er hñ sa JESum [i] fiell hañ nidur fyrer Fætur hañs/ [c] og bad hann [b] mykelega/ [c] ad hann kiæme i hañs Hws/ (þviad hñ ætte sier einka Doottur / nær tolf Ara gamla/ & hñ var ad Dauda kom

enn) ad hañ [b] legde sijna Hønd yfer hana/ so
hun yrde Heil og liþde. [a] Og JEsus stood
upp og þylgde hønum epter/ og hañs Lærefvet
nar / [b] margt Foolk þylgde og hønum epter /
[c] og er hañ gieck burt/ þa þreyngde Folked ad
hønum. [1] Og sia/ein Kviña hvør ed Blood
hall haþde haþt i tolþ Aar/ [b] hun haþde og
myked þolad aþ mørgum Læknurum/og kostad
þar til [e] allre siñe Aleigu/ [b] z þ stodade heñe
þo eckert / helldr vesnade heñe myklu meir. Þa



hun heyrde aþ JESu/ kom hun med Foolkenu
a bak til [a] vid hañ / [1] og snerte Falld hañs
Klæda/ [e] þviad hun sagde med sialþre sier/ eþ
eg mætte ad eins snerta hañs Klædnad/ munda
eg Heilbrygd verda/ z jaþnsnart [c] stemdest her
nnar Bloodlat/og [b] uppþurkadest heñar Blo
oodbrunnur/og hun pañ a sijnum Lijkama/ ad

 hun var

hun var heil ordenn af sinne Plaagu. Og JEs-
us fann strax a sialfum sier/ þann Krapt er wt
af hønum giek / og snere sier vid til Foolksins
og sagde/ Huør snart mijn Klæde? [c] Huør er
sa mig snerte? Enn er þeir aller neitudu / [b]
sagde Petur og þeir med hønum voru/ Meyst-
are [b] þu sier ad [h] Foolked þrenger og þia-
er ad þier/ og þu seiger/ Huør snart mig? [c]
JEsus sagde/ einhuør hefur snorted mig/ þui
ad eg kiende Krapt wt af mier geingenn. [b] Og
hann skigndest i kryng epter þeirre er þad hafde giø-
rt. [c] Enn er Konann sa ad þad var eige
hulid/ kom hun hrædd og skialfande/ [b] þui
ad hun vissi hvad henne hafde skied) og fiell fyr-
er hønum nidur/ [c] og kunngiørde hønum fyrer
øllu Foolke/ fyrer huøria Sok er hun hafde hann
snorted/ [b] og sagde hønum allann Sannleik [c]
z huøresu hun hefde j stadsnart Heil ordid. Þa
sagde hann til hennar/ vertu Hughraust mijn Doott-
er/ þijn Trw hefur hialpad þier / far i Fride/
og vert heil af þinne Plaagu. [a] z konann vard
heil a þeirre sømu Stundu.

ÞA [h] hann var enn þetta ad tala komu nock-
rer af Pienurum SamkunduFormannsins z
sogdu/ þijn Dootter er dáuid / Þui omakar þu
Meystarann leingur? [b] Enn JEsus heyrde
strax hvad þar sagdest/ og sagde til Samkundu
Foringians/ [h] Ottast þu eige/ trw þu ad eins/
þa verdur hun Heilbrygd. [b] Og hann liet ønga-
nn fylgia sier/ nema Petrum og Jacobum z
Johannem Brodur Jacobi. Og hann kom j

Samkundu

Samkunduhꝛ́ꝛ́þdinglans Hwꝛs/[c] en þeir grietu allir og syrgdu hana. [a] Og er JESus sa Pijpublæsarana og Pꝛ Foolk sitt/ [b] og þa er þar grietu mióg og æptu/ gieck hañ þangad inn at og sagde til þeirra/ Hvad hulldꝛed þier og syted? [a] Fared brá/ [e] grated eigi/[f] þviad Stulkañ er ecki Dauð / helldur sefur hun. Og þr dæꝛudu hañ/ [c] þviad þr vissu ad hun var læten. [h] Enn hañ rak þa alla wt/ (b) og took med sier Fódur og Modur Barnsins/ og þa er med hónum voru/og gieck þangad inn sem Barned laa. (i) Og hañ took i Hónd Barnsins (c) kallade og sagde/ (b) til hennar/ Talithacumi þad wtleggst/Stulka eg seige þier/ryß upp.(c) Og hennar Ande kom aptur/ (b) og þa strax reis Stulkañ upp og gieck/ Enn hun var toolf Ara gómul. (e) Og heñar Forelldrar urdu (b) ommæranlega ꝛelmꝛ fuller. Og hañ fyrer baud þeim hardlega ad þad skyllde eingeñ vita/ (c) z ad þeir segdu aungvum hvad giórdst hafde. b Hañ skipade og ad gieva heñe ad eta. a Og þetta Rykte barst wt um allt þad Land.

# XXII Capitule.

Um Lækning tveggia Blindra/ og eins Diøfulseteńs Mañs sem var Mallaus.

Matth. 9.


G er JEsus gieck burt þadan þr
ann leingra/ fylgdu hønum epter tve
ir Menn Blinder/ þeir ed kølludu o
søgdu/ æ þu Son Davids myskunna
ockur. Og er hann kom inn i Hwsi
ed/ geingu hiner Blindu til hans. Og JEsus
sagde til þeirra/ trwed þid ad eg kunne ad giøra
yckur þetta? Þa søgdu þeir til hans/ja Herra.
Þa snart hann þeirra Augu/og sagde/ verde yck
ur epter Tru yckar. Og þeirra Augu lukust
vpp. Og JESVS hootade þeim og sagde/sia
ed til ad þad þære ei nockur ad vita. Enn þeir ge
ingu wt/ og wtbreiddu hiis Rigte um allt þad
Land.

Þa þesser voru nu utgeingner/ sia/þa føhrdu
þeir til hans þann mann/ sem Dumbe var og Dio
fuloodur. Og ad wtreknum Dioflenum/ talade
hinn Maallause/og Foolked undradest þad/og sa
gde/alldrei hefur slykt sied vered i Israel. Enn
Phariseí søgdu / hann rekur Dioflana wt fyrer
Diøfla Høfdingiann.

# XXIII Cap.

## Um Apturkomu Christi i sitt Foostur-land Nazareth.

Matth. 13. Marc. 6.


G [b] hann gieck þadan/ og kom i
sitt Foosturland/ og hans Lærisvei
nar fylgdu hønum epter. Og er
Sabbats dagurenn kom/ þa tok hann
til ad

til ad kienna [a] þeim / [c] i þeirra Samkundu huse. Og marger af þeim sem þad heyrdu / undrudust hans Kienning / og sǫgdu / huadan kiemur hønum slijkt ? [b] Eda huor er su Speke sem hønum er giefen ? Og slijk Kraptaverk er giǫrast fyrer hans Hendur ? [c] Er þetta ecke [b] eirn Triesmidur / [a] Timbursmidsens Son ? Heiter hans Mooder ecke Maria ? Og Bræbur hans Jacob og Joses / Simon og Judas ? Og hans Systur / eru þær ei allar hier hia oss ? Nu adan kiemur þessum þa allt þetta ? [c] Og þeir hneixludust at hønum. En JESUS sagde til þeirra / eirn Spamadur er huorge i minne Virdingu / en at synu Foosturlande [b] og hia synum Ættmøñum / [a] og i synu eigen Huse. [b] Hann giecl þar og ecke neitt Kraptaverk giǫrdt / [a] fyrer saker Vantruar þeirra / [b] nema yfer þaa eina Siuka / þa lagde hann Hendur / og læknade þa. Og hann undradest þeirra Vantru.



# IV Partur.

## Hlioodar um þad er vidbar a þridia Are Predikunar Embættis Herrans Christi.

## I. Capitule.

Um almenelega Visitatiu/ og Yferferd Christi um Galileam. Item Utsending þeirra tooll Postula til ad Predika og giora Krapta verk.

Matth. 9. Marc: 6. Luc. 9.



Ei[a] JEsus gieck um kring i ollum Borgum og [c] Kauptunum [b] er þar stoodu i Byggingu/ kiende [a] i þeirra Samkundu Husum/ og Predikade Evangelium Rykis sins/ og læknade allahanda Sootter/ og allskins Kranckdæme hia Folkenu. Og er hann leit Foolkid/ sa hann aumur a þvi/ þuiad þeir voru vanmegna ordner/ og tvistrader/ sem þeir Sauder er einginn Hyrder hafa. Þa sagde hann til sinna Læresveina/ Kornskieran er mykel/ en

Verka-

Verkmennerner faaer / þyrer þvi bidied Herrann
Kornskierunnar/ ad hann sende Verkmenn i sijna
Kornskieru.

[a] OG hann kalladi tolf sijna Lærisveina til sijn
[b] og took ad senda þa tvo og tvo / [c]
og gaf þeim Vald og Magt [e] yfer ohreinum
Aundum / [c] og yfer ollum Dioflum [a] ad þe
ræke þa wt/ og ad lækna allskins Sootter / og
allra handa Vanmætte. En þeirra tolf Poste
ula Nøfn eru þesse/ sa fyrste Simon sa ed kall
ast Petur/ og Andreas Brooder hans / Jacob
Son Zebedei/og Johannes Brooder hans. Phi
lippus og Bartholomeus/ Thomas og Mat
theus Tollheimtare. Jacob Alphei Son / Leb
beus ad Vidurnefne Thaddeus. Simon af Ca
na/og Judas Jscariot/sa ed forraad hann.
Þessa tolf utsende JESVS / [b] og baud
þeim ad bera eckert a Veg med sier nema eitt
Staf/ eige Pung / eige Braud / eige Pening a
Linda/ helldur klædder Skoofødum [I liaskoom]
og ad þeir klæddust eige tveim Kirtlum. [c]
Og hann sende þa ut ad predika Guds Rijke/ og
ad græda Siuka/ [a] bioodande þeim og sagde/
Fared ei a Gøtu heidenna Thiooda/ gaanged eige
inn i Borger Samverskra Manna / helldur gan
ged til þeirra fortapadra Sauda af Huse Jsra
els. Fared ut predikied og segied/ þad Himnarij
ke er nalægt. Læknid Siuka/hreinsed Lykthraa/
uppvekied Dauda/ wtrekid Diofla / fyrer ekert
hafed þier þad þeiged/ giefed þad og wt fyrer
ekert. Þier skulud eige hafa Gull/ ei Silfur/og

Kopar i Lindum ydar/ og ei helldur Tøsku til
Vegferdar/ [c] eige Braud nie Peninga/ & ein
gen skal hafa tuo Kiortla/ [a] eige Skoo/ aung
vann Staf/ þuiad verdur er Verkmadurenn sinnar
Fædu. [l] Og i huorja þa Borg edur kauptun
sem þier inngaanged/ [a] þa spyrled ad huort þar
sie nockur i henne sem þess sie verdur/ og þar hia
þeim sama blyfed / þar til þier fared burt þa
dann. Nær þier inngaanged i nockurt Hws / þa he
ilsed þui. Og ef þ sama Hws er þess verdugt/
mun ydar Fridur koma yfer þad/ enn ef þad er
eige verdugt/ þa mun ydar Fridur til ydar af
tur huerfa. [l] Og huorier ad eige medtaka yd
ur/ og heyra eige [a] ydvarre Røddu/ gaanged ut
af þui hwse eda Borg/ [l] hristed Dusted af yd
rum Footum/ [h] til vitnisburdar yfer þa. [c]
Sannlega seige eg ydur/ ad bærilegra mun verda
Landenu Sodome og Gomorrhæ a Domsdeg
ge/ helldur enn þeirre sømu Borg.

# II Capitule.

## Spaadoomur & Fyrersogn Christi umm Of
## sookn Postulanna/ wt af Matthei 9 Capitula.
## Item umm þeirra Afturkomu og Erind
## islok.

### Marc: 6. Luc: 9.



Jmed [a] eg sende ydur so sem Sau
de a millum Varga. Fyrer þui
vered forsiaaler so sem Hoggormar/
og einfallder sem Dwfur. Enn

vakted

valted ydur fyrer Mönnum/þviad þeir muñu ofurselia ydur fyrer sijn Radhwss/ og i sijnum Samkunduhwsum munu þeir ydur strykia. Og þier munud leidder verda fyrer Landshøfdingia og Konga miña vegna/ til Vitnisburdar yfer þa/ og yfer heideñ Lyd. Enn nær þeir framselia ydur nu / þa vered ei hugsiuker/ huorneñ eda huad þier skulud tala/ þviad þad mun ydur a þeirre Stundu giefed vera / hvad þier eiged ad tala. Þvi ad þier erud eige þeir sem tala / helldur er þad Ande ydvars Fodurs/sa er talar j ydur. Sa eine Brooder mun selia añañ i Dauda og Fader Soneñ/ og Nidiarner munu upp rysa a moote Foreldrunum/ og þeim Fiörrade veita. Og þier verded ad Hatre hafder af ollum Mönnum fyrer mijns Nafns Sakar. Enn huor hñ er stadfastur allt til Enda sa mun holpeñ verda. Eñ nær þeir ofsækia ydur i eirne Borg/ þa flyed i adra. Sannlega seige eg ydur/ad þier munud eige full komnad gieta Borgerner i Jsrael/þar til ad Mañsins Soner kiemur. Eige er Lærisveineñ yfer sijnum Meystara/og ecke Þioonenn yfer Herranum. Nægest Lærisveinenum ad hañ

ad han̄ sie so sem hans Meystare/ en Þionenn sem hans Herra. Ef þeir hafa Hwsfoduren̄ Beelzebub kallad/ hvad miklu meyr munu þeir þa hns Heimamen̄ so kalla? Af þvi ottest þa ecke/ þvi eckert er so Huled/ad eige verde auglioost/og eckert er so leindt ad ecke skeest ad vita. Hvad eg seige ydur i Myrkre/ þad taled i Lioose/ og hvad þier heyred i Eyra/þad prediked a Ræfrum. Og hrædest eige þa sem Lijkamann aflyfa / og Sælena gieta ei lijflated/ helldur hrædest þan̄ framar sem Sælu og Lijfe gietur tortydt i Helvijte. Kaupast eige tveir Titlingar fyrer eirn̄ Pening? Þo fellur eige eirn af þm a Jord/an ydars Fodurs (Vilia.) So eru eirnen̄ oll ydar Hofudhaar talenn. Fyrer þvi ottest eige/þier erud morgum Titlingum betre. Fyrer þvi huor han̄ medkienner mig fyrer Mon̄um / han̄ vil eg medkienna fyrer mijnum Himneska Fodur. En huor han̄ afneytar mier fyrer Mon̄unum / þeim vil eg afneyta fyrer mijnu Himneska Fodur.

Þier skulud eige þeinkia/ad eg sie komenn Frid ad senda a Jordena/ Eige kom eg Frid ad senda / helldur Sverd. Þviad eg er

komenn

komenn til ad ypa Manneñ a moote Fodur sijnum/ og Dooturena i giegn Moodur sijne/ z Sonarkonuna i giegn Modz Mañs sijns. Og Mañsins Hiw munu vera hañs Ovin-er. Huer hañ elskar Fødur og Moodur me ir eñ mig / sa er nijn eige verdugur. Og huor hau elskar Son edur Doottur yþer mig sa er mijn ei verdugur. Og huor hañ tekur eige sijñ Kross a sig og fylger mier epter/ sa er mijn ei verdugur. Huor ed pinur siti Lijf/ sa mun tyna þui/ og huor sijnu Lijfe tijner miña vegna/hañ mun þad pinna.

Huor hañ medtekur ydur/ sa medtekur mig og huor mig medtekur/hañ med'ekur þañ sem mig sende. Huor hañ medtekur Spamañ i Spamañs Nafne/sa fær Spamañs Lauñ/ Huor hann medtekur Riettlataũ i Riettlats Nafne. sa fær Riettlats Lauñ/ Og huor hñ giefur eynum af þessum Vesalingum eirn Bikar af kolldu Vatne ad drecka i Lærisve-ins Nafne/ Sañlega seige eg ydur/ ad þad mun eige honum o'aunad vera.

[a] Og þad skiede er JEsus hafde liktad þess far Bodaner til sijña Lærisueina / giecl hann leingra þrañ ad kienna z predika i þeirra Bor-gum/ [b] og þeir (Lærisueinarner) geingu ut

[c] og

[c] og ferduduſt i giegnum Kauptun/ og predi kudu Evangeliū/ [b] þad Mēn ſkylldu giøra Ydran/ z þeir raku ut marga Diøfla/ ſmurdu og marga Siwka med Vidſmiøre / og l[...] all du þa.

# III Capitule.

## Um Lijflat Johañis Skijrara/ og Rik ted Christi ſem barſt fyrer Herodem ſiñ z hans Alit þar um.

Matth. 14. Marc. 6. Luc. 9.



G [b] þar kom eirn hentugur Dagur ad Herodes giørde af ſiñe Artijdena Kuølldmaaltijd / Høfdingium og Høfudsmøñum/ og hinum fremſtu Møñum i Galilea. [a] Eñ er Herodes hiellt (heñañ) ſiñ Fædingardag/ [b] þa giekk Dotter Herodiadis þar iñ/ [c] og danſade [a] mitt frame fyrer þeim/ [c] og þad lijkade Herodi vel/ [b] og þeim er ſatu til Bordſens. Þa ſagde Kongureñ til Stulkuñar/ bid af mier huørs þu villt/ eg vil veita þier þad. Og hann ſoor henne eirn Eid / ad huørs þu beidest af mier/ þa ſkal eg giefa þier/ allt iñ til Helmings af mijnu Kongsrijke. Hun giekk ut og ſagde til Moodur ſiñar/ huørs ſkal eg bydia? Eñ hun ſagde/ um høfud Johañis Skijrara. Hun giekk þa ſtrax med Skunda til Koongſens/ [a] z ſem hun var meggiaf af Moodur ſiñe/ bad hun

hañ og

ed Trwna og eþed eige/þa munud þier eige einasta giora slykt vid Fykiutried / helldur (b) huor hellst hañ segde til þessa Fialls lyft þu þier upp / og fleyg þier i Sioeen/ og eþade eige i synu Hiarta/ helldur trude ad pad munde so skie hvad hañ seiger/þa muñ pad og skie hañ/ hvad hañ seiger. Fyrer þui seige eg ydur / (e) allt hvad hellst þier bidied i ydvarre Bæn trwed ad þier odlest pad / þa mun pad henda ydur. (b) Og nær þier standed og bidiest fyrer/þa fyrergefe ed eþ þier hafed nockurskonar oddñ i giegn/ so ad ydar Fader sem er a Himnum fyrergiefe ydur ydar Brot. Þviad eþ þier fyrer giefed eige/ þa fyrergiefur og eige ydar Fader ydur/ sem er a Himnum/ ydar Brot.

# XVI Capitule.

Andsvar Christi sem hñ gaf Kiennemönnunum og Aulldungunum / þa þeir spurdu hañ aþ hvgrium Myndugleika hañ kiende. Eptterlyking aþ þeim tveimur Sonum sem Faderenn sende i Vyngard siñ/ z um Vyngardeñ er leigdur var þeim illu Akurmøñum.

Matth. 21. Marc. 11 z 12. Luc. 20.

þeir



Eir [b] komu og aptur til Jeru-salem/ [c] z. þad skiede a einum þessara Daga/ [a] sem hañ kom [b] og gieck i Musterenu/ [c] þa hñ var ad kieña Foolkenu/og ad predika Evangelium/ [1] geingu til hañs Prestahøfdingiar Skriftlærder og Aulldungar Lydsins / tøludu til hñs/ og søgdu/ seig oss af huørre Magt þu giører þetta? Og huør heþur giefed þier Valld til ad þu giører þetta? Eñ JEsus svarade z sagde til þeirra/ eg vil z so spyria ydr ad einu Orde/ [e] ef þier seiged mier þ / vil eg seigia ydur vt af hvada Magt eg giøre þetta. [h] svared (og) seiged mier/ [l] Skyrn Johañis hvadañ var hun? Huørt af Himne edur af Møñu? Svared mier/eñ þr huxudu m z sialfum sier z søgdu/ ef vier seigium ad hun være af Himne/ þa seiger hñ til vor/ þvi trwdud þier hønu þa eige? Eñ ef vær seigium/ hun haþe verid af Møñum/þa meigum vær ottast Foolked (z) þa mun allr Lydr lemia oss Grioote/ þvi aller hielldu ad Johañes være sañur Spamadur/og þeir svørudu og søgdu til JEsu/ ad þeir visse ei hvadañ hun være. Og JEsus svarade og sagde til þeirra/ þa seige eg ydur z eige helldur/ af huørre Magt ad eg giøre þetta. [b] Hñ tok og til ad tala vid þa i Epterlijkingum. [a] Eñ hvad lijst ydur? Madur nockur haþde tvo Sonu / og gieck til hins fyrsta og sagde / Son minn/ far þu i Dag ad viña i Vijn

garde mijnum. Enn hann svarade og sagde ei vil eg þad giora/ epter a ydrade hann þess og gieck i burt. Og hn gieck til hins annars/ og sagde slijkt hid sama/ enn hann svarade og sagde / Ja Herra / og ffoor ecke/ Hvør af þeim tveimur giørde Fødursins Vilia? Þeir søgdu til hans/ hinn fyrste/ JESus sagde til þeirra/ Sannlega seige eg ydr/ ad Tollheimtarar og Pwtur meiga fyrre komast i Himnarijke enn þier. Johannes kom til ydar og kiende ydur hann rietta Veg/ z eige trwdud þier hønum enn Tollheimtumenn og Pwtur trwdu hønum. Og þo ad þier sæud þetta vel/ giørdu þier øngva Yfirboot/ so ad eptera hefdud þier hønum trwad.

Enn [c] hann took þa ad seigia til Foolksins þessa Eptirlijking (seigiande)/ heyred [a] enn adra Eptirlijking. Nockur Hwsbader var þar/ [1] sa ed plantade Vijngard/ [c] og giørde Gard i kryngum hann/ og groof i hen um Vijnpressu/ og bygde þar upp Turn [1] og leigde hann sijdan Vijngardsmonnum / og ferdadest langt i burt Mannlands langan Tijma. Og er Avaxtar Tijmenn var kom enn/ [h] sende hann eirn sinn Þioon til Vijngards mannanna/ ad hann tæke af Vijngardsmonnunum (og) þeir giæfe hønum Avoxt af

Vijngar-

Vijngardenum/eñ Vijngardsmeñerner hand tooku hañ/sloou hañ og lietu hañ Tomhend tann fra sier fara. Og enn aptur sende hañ añañ Þioon til þeirra/enn þeir stryktu hañ/og hofudlestu hañ Griooke/oarudu hñ/ og lietu erindislausañ i burt fra sier fara. Og enn yfer þad fram/sende hañ ꝛꝛt hinn þridia/huorn þeir lemstrudu Sarum/ tookū burt og afliþudu sijdañ. [e] (Framar) sende hañ adra Þioona ꝛꝛt sem fleyre voru hinum fyrre/og þeim giordu þeir slijkt hid sama/ suma Mœdstrycktu þeir/eñ suma Drapu þeir. [e] Þa sagde Herrañ Vijngardsins/ Huad skal eg tilgiora? Eg vil senda Son miñ elskulegañ/ [b] þa hafde hañ enn epter eirn einka Son sem hann hafde kiertann/og þañ sende hañ semastañ til þeirra/ og sagde/ [i] mœ vera ad þa þeir sia hann þa feile þeir sier fyrer Syne mijnum. Eñ þeir hiner somu Vijngardsmenn er þeir sau Soneñ/þeinktu þeir med sialfum sier / og sogdu huor til añars/þesse er Erfingeñ/kom med þier og aflijfum vœr hañ/so ad vor verde Arfurenn/ og leggium vier under oss hanns Arfleifd. Og þeir gripu hañ/rœ-

ku hn̄ vt aþ Vyngardenū / ꝛ lyþlietu hann.
[a] Eñ nær Herrañ Vyngardsens kiemur / huad
mun hañ giøra vid þessa Vyngardsmeñ? Þeir
søgdu til hans / þeim vondu mun hañ vondslega
þyrerþara og sin̄ Vyngard byggia ødrum Vyn-
gardsmøñum / þeir ed hønum Avøxt giallda i
rettañ Tyma. JEsus sagde til þeirra / (Ja)
hann [b] mun koma og tortyna þessum Vyn-
gardsmøñum / ꝛ byggia sin̄ Vyngard ødrum / [c]
þa þeir hyrdu þad / søgdu þeir / þærre sie þui.
Eñ hañ horþde a þa ꝛ sagde / huad er þa þad
sem stendur skrifad? [e] Hafed þier alldrei le-
sed i Ritningunne þessa Skrift? [1] Þañ Stein
huorn Vppbyggendur burtkøstudu / hañ er or-
deñ ad Hyrningar Steine / aþ Drottne er þ
giort / og er undarlegt þyrer vorum Augum.
[a] Fyrer þui seige eg ydur / ad Guds ryke mun
þra ydur takast / og Heidingium gieþed verda /
þeir sem þar aþ Avøxt þæra. [f] Eñ hvor yfer
þeñañ Stein þellur hañ mun sundurmeliast / eñ
yfer hvorn hañ þellur / þañ mun hañ sundurmel-
ia. Og þa þeir yppurstu Prestar Skriftlær-
der ꝛ Phariseer heyrdu hn̄s Epterlykingar / [1] leit-
udu þeir vid / hvornen þeir feinge Hendur a
hañ lagt i þad sin̄ / þuiad þeir skyldu vel ad hn̄
sagde þessa Epterlyking i moote þeim (og) up-
pa þa. Enn þeir ottudust Folked / [a]
þui þad hiellt hann þyrer
Spamann.

XVII. Cap.

# XVII Cap.

Epterlijking um Brwdkaupid og Brwdkaups Klæded / Item Andsvar Christi uppa Spurningena um Keysarans Skatt / z Saducearanna Spurning um Vpprisu Framlidenna.

Matth. 22. Marc. 12 Luc. 20.

OG JEsus [a] svarade og talade i añad siñ i Epterlijkingū til þeirra og sagde. Himnarijke er lijkt þeim Konge sem Brwdkaup gi-
ørde Syne sijnum / og sende wt sijna Þioona ad kalla Bodsmeñena til Brwdkaupsins / og



þeir villdu eige koma. J añad siñ sende hañ adra Þioona wt/og sagde/ seiged Boods moñunum. Siaed/mijna Maalttijd hefe eg tilbwed/ mijner Yxar og aled Fie eru slat-rader / og allt er til reidu bwed / komed til Brwdkaupsins. Eñ þeir þorsmædu þad/ og geingu i burt/ eirn æ siñ Akur/ eñ ann ar til sinnar Syslunar. Eñ nockrer gripu hañs Þioona/dærudu þa og drapu. Enn þa Kongureñ heyrde þad/ vard hañ reidur/ og sende wt siñ Her / og fyrerfoor þessum Mordingium/og brende Borg þeirra.

Þa sagde hañ til siña Þioona/Brwdkaup-ed er ad sonnu reidubwed/ eñ Giesterner þeir voru þess ei verduger. Fyrer þvi fared wt æ Stræteñ/ og biooded til Brwdkaupsins huorium sem þier finned / og Þioonarner geingu wt æ Stræteñ/og samansofnudu ollum þeim þeir fundu/ Vondum og Good um / og Bordeñ urdu alskipud. Þa gieck Kongureñ inn ad sia Gestena/og hñ sa þar Mañ/eige klæddañ Brwdkaups Klædum/ sagde til hañs/ Vinur huorneñ gieckstu hingad / hafande ecke Brwdkaups Klæde? Enn hañ þagde/Kongureñ sagde þa til siña

Þienara

Þienara/binded hans Hendur og Fætur/og varped honum i ysstu Myrkur/ þar mun ve ra Þop og Tannagnystran/þuiad marger eru kallader enn fáer wtvalder.

ÞA [e] Phar/sei þorlietu hann/ geingu i burt og hielldu Rád/huørnen þeir skylldu veida hann i Ordum. [c] Þeir høfdu og Vardhallo a hønum/ [l] og sendu wt til hans Tálsmenn/ sijna Lærisueina/nockra af Phariseis mz Hero dis Þienurum / [e] hugtiet sier ætta ad breita sem være þeir aldygger/so ad þeir giætu veidt hann i Ordum/ hvar med þeir kynne ad afhenda hann Valldenu/ og Magt Landstioornarans.

[l] Og þeir komu/ spurdu hann ad og søgdu/ Meistare/vær vitum ad þu ert sannsøgull/seiger



og kienner riett/ og skeiter ecke nockrum / þuiad

þu ser

þu fer ej ad Mañvirdingum/helldur kienner þu
Guds Veg Riettilega. [a] Fyrer þui seig oss þu
ad þier lyst/[1] er þad riett ad Meñ skule giefa
Keysaranum Skatt edur eige? [b] Skulum
vær hañ giefa edur ecke giefa? [1] Eñ þa JE
SVS formerkte þeirra Flærtskap/ sagde hann
til þeirra/ huad freysted þier myn Hræsnarar?
Færed mier eitn Pening ad eg siáe hañ/ (og)
syned mier Myntena Skattsens. [c] Og þeir fe
ingu hønum eitn Pening. Og hañ sagde til þe
irra/ huørs er þesse Mynd og Yfirskrift? [1]
Þeir svørudu og sǫgdu hønum/ Keysarans. Þa
svarade JESVS og sagde til þeirra / giefed
þa Keysaranum huad Keysarans er / og þad
Gude sem Guds er. [a] Og er þeir heyrdu þad/
furdade þa á hønum. [c] Og þeir gátu eige
strafad hañs ord fyrer Folkenu/ undrande hañs
Andsvar og þǫgnudu/ [a] forlietu hañ og geín
gu i burt.

[1] A Þeim sama Deige geíngu nockrer af Sa
duceis til hans/ huorier ed hallda Vppri
suna ei vera/ og spurdu hañ ad og sǫgdu/ Meis
tare/Moyses hefur sagt/ [og] oss so fyrerskrif
ad/ ad ef ad nockurs Mans Broder andadest/ z
hefde eigeñ Konu epter/og liete eingeñ Børn ep
ter sig/ þa skyllde hans Brooder eiga þa sǫmu
hans eigeñ konu/ og uppvekia so synum Brodur
Sæde. Eñ hia oss voru siø Brædur/ og hiñ fyr
ste fastnade sier Eigeñkonu/og hañ andadest/og
af þui hañ hafde eckert Sæd / liet hañ brodur
synū epter syna Eigeñkonu. Og sa annar tok

hana og andadest/ liet og eige Sæde epter. Og lyka hin pridie atte hana/ og eitnen þeir Siø tooru hana aller/ og lietu eige Børn epter og endudust. Seinast epter þa alla andadest og



Konan. Enn i Vpprisune þa er þeir rysa upp/ huørs þeirra siø Eigenkona þa verdr hun? Þui ad aller þeir siø hafa hana haft til Eignarkonu. Og JESVS svarade og sagde til þeirra/ [c] er eige so ad þier villest þar fyrer / ad þier vited ej Ritningarnar / og eige helldur Guds Krapt? [c] Børn þessarar Veralldar gyptast/ z lata gypta sig/ en þeir sem verduger verda ad edlast hin anan Heim / og Vpprisuna af Daudum / þeir munu huorke gyptast nie sig gypta lata. [b] Þuiad þa þeir rysa upp af Dauda/ kuongast þeir ei nie gyptast/ [c] þui þeir gieta

ej sydan

er sydañ daud/ [i] helldur eru þeir lyker Englum Guds a Himnum/og eru Guds Børn/med þui þeir eru Vpprisuñar Børn. Eñ um þa Daudu ad þeir skule uppryssa/ [c] heþur Moyses audsyndt. [b] Haþed þier ecke lesed i Moysis Bok/ [a] huad aþ Gude er ydur sagt? [b] Huornenn sagde GVD til hans hia Skogarrunnenum? [l] Eg em Gud Abrahams / Gud Isaacs og Gud Jacobs. Eñ Gud er ej Gud Daudra / helldur Gud lifande Manna/ [c] þuiad þeir lifa hønum aller/ [b] aþ þui villest þier miøg. [a] Og er Folked heyrde þetta/ undradest þad hans Kienning. [c] Þa suørudu nockrer aþ hinum Skriftlærdu og søgdu/ Meistare/ þu heþur riett sagt. Og þeir dyrfdust eige þramar ad spyria hann nockurs.

# XVIII Capitule.

## Spurning þess Skriftlærda / huørt ad være hædsta Bodord i Løgmaalenu. Item Spurning Christi huørs Son hañ være.

Matth. 22. Marc. 12. Luc. 20.



Nu [a] þegar Pharisei heyrdu þad hann haþde þaggad Saduceos/ søpnudust þeir samañ. [c] og eirn Løgvitringur medal þeirra aþ Skriftlærdum/ [b] geck til hans / sa er heyrdt haþde þa spyriast a / og sa þad hañ haþde suarad þeim vel/ og spurde hañ ad/ [a] freystade hans og sagde/ Mey

gde/ Meystare/ [c] Hvørt er þad ædsta Bod-
ord aþ øllum i Lógmaalenu? Enn JEsus
svarade (og) sagde til hañs / [b] þad er þad
ædsta Bodord aþ øllum/ Heyr þu Israel/
DROTTENn Gud vor er eirn Gud. [c]
Og elska skalltu DROTTEñ Gud þiñ aþ
ollu Hiarta þijnu/ og aþ allre Sælu þiñe/
og aþ ollu þijnu Hugskote/og aþ ollum Kr-
eptum þijnum. Þetta er hid hellsta og me-
sta Bodord/ enn añad er og þessu lijkt/El-
ska skalltu Naunga þiñ sem sialþañ þig. [b]
Eige eru þar onnur Bodord þessum meire.
[a] J þessum tveimur Bodordum heinger
allt Løgmaal og Spaamennerner. [b] Og
hiñ Skriþtlærds sagde til hñs / Meystare / ꝛ
Sañleika sagder þu vel/ þvíad eirn er Gud/ ꝛ
eingeñ er þar añar eñ hañ. Og elska hñ aþ øllu
Hiarta / og aþ øllu Hugskote/aþ allre Sælu
og aþ øllum Kræptum / og ad elska Naunga
siñ sem sialþañ sig/ þad er øllum Brenneþoorn
um meyra ꝛ øllu Offre. Enn er JEsus sa
ad hañ svarade vijslega/ sagde hañ til hañs/ei-
gi ertu langt þra Guds Ryke. Og eingeñ þor
de þa ad spyrla hañ þramar meir.

EN [a] þegar Pharisei voru nu til samans/
spurde JEsus þa ad/ [h] er hañ kiende i
Musterenu og sagde til þeirra/ [a] Hvad virdi-
st ydur um̃ Christum? Hvørs Son hañ sie?

Þeir

Þeir spögdu Davids [l] JEsus svarade og
sagde til þeirra/ [h] Hvørnenn seigia Skriptlærd
er Christum vera Davids Son? (Og) Hvern
enn [a] kallar David hann þa i Anda ein DRO-
TTenn? [b] Þviad David seiger sialfur þyrr
er Heilagann Anda / [c] i Psalmabookenne / [i]
DROTTenn sagde mynum DROTTne/ sit þu
til minnar Hægre Handar/ þar til eg legg Ovine
þyna til Skarar þinna Foota. [h] Þar nepn
er David hann sinn DROTTenn/ Hvørnenn er hann
þa hanns Sonur? [a] Og eingenn gat hønum
einu Orde svarad/og eige dyrpdest nockur upp
þra þeim Deige hann þramar ad spyria. [b] Og
margt Foolk heyrde hønum giarnann.

# XIX Capitule.

Avijtunar Predikun Herrans Christi/ sin
hann þramsetter þyrer Foolkenu umm Læste þeirra
Skriptlærdu og Phariscarann / hootande þeim
hørdu Straffe.

Matth. 23. Marc. 12. Luc. 20.

Þa [f] talade JEsus til Foolksi-
ns og til sinna Lærisveina [b] kie-
nde þeim og sagde til þeirra / [a]
a Moysis Stoole sitia Skriptlær-
der/ og Pharisei. Allt hvad þeir seigi-
a ydur þier skulud hallda / þad halldid og
giored/ enn epter þeirra Verkum skulud þier
eige giøra

eige giera. Þviad þeir seigia þad/ og giö ra ei. Þeir samanbinda þungar Byrder og obærelegar og leggia þær Mońum a Herdar/enn sialffer vilia þeir ei æhræra þær Fingre sijnum/ þviad øll sijn Verk giora þr ad þeir sieest af Mońum. Sijn Minningar Blød breidka þeir/og Falld siña Klæda stæcka þeir. [1] Þeir sitia giarnañ efst til Bords i Giestabodum/ og i Samkundu hwsum/og vilia giarnañ Kvediur a Torgū. [b] Vared ydur vid Skriftlærdum / þeim sem ganga vilia i sijdum Klædum/[a] og af Mönnum Rabbi kallader verda. Eñ þier skulud ei læta kalla ydur Rabbi/ þviad eirn er ydar Meystare Christur/ enn þier aller er ud Brædur. Og ongvañ skulud þier Fødur kalla a Jordu / þviad eirn er ydar Fader sa sem a Himnum er. Og þier skulud ei læta ydur Meystara kalla / þvi eirn er ydar Meystare Christur. Sa sem ad mest ur er ydar/ sie hañ ydar Þienare. Þvi huor sialfañ sig upphefur/ sa mun nidurlægiast/ og huor sialfañ sig nidurlæger/ hñ mun upp hafenn verda. Vei ydur Skriftlærd um og Phariseis/þier Hræsnarar/ huorier

T apftur

apturloked Himmarijke ffyrer Mønnum / ei
ganged þier þar inn/og þeim er þar inn vilia
ganga / þa loffed þier ei þar inn.
Vei ydur Skrifftlærdum og Phariseis/
þier Hræsnarar / [t] huørier Ecknahws
uppeted med Yfferhylmingu langra Bæna/
ffyrer þad munud þier þess meire Fordæming
ødlast. [a] Vei ydur Skrifftlærdum og Pha
riseis/ þier Hræsnarar / huørier umm kryng
ffared Sioo og Lønd/so ad þier giored eirn
ad Gydinge/og nær hann er þad orden/ giøre
þier hann ad Barne Helvijtis/tuoffallt meir enn
þier erud. Vei ydur Blindum Leid-
togurum/þier sem seiged/ huør hann sver vid
Mustered/ þad er eckert/ enn huør hann sver
vid Gulled Musteresins/ sa er sekur/ þier
Heimsker og Blinder/ Huørt er meira Gu-
lled eda Mustered/huørt ed helgar Gulled?
Og huør ed sver vid Alltared/ þad er eck-
ert/enn huør hann sver vid þad Offur sem a
þvi er/sa er sekur. Þier heimsker og Bli-
nder/huørt er meira Offred edur Alltared þ
sem Opffred helgar? Fyrer þvi/huør hann
sver vid Alltared/ sa sver vid þad sama/ &
vid allt hvad þar er uppa/ og huør hann sver
vid Must

vid Mußtered/ſa ſver vid þad/ og vid þañ
ſem þar bygger inne. Og huer hañ ſver
vid Himeneñ/ ſa ſver vid Guds Sæte/og
vid þañ ſem þar uppa ſitur. Vei ydur
Skriftlærdum og Phariſeis/ þier Hræſn=
arar/huerier tijunded Myntu/Aneth og Ku
men/og yþergießed þad huad þÿngſt er i Log
malenu/ einkum Doomeñ/Myſkunſemd og
Truna/ þettad byriade ad giora og hitt ei=
ge epter ad ſkilia. Þier blinder Leidtogarar/
ȇ ſijed Mijſluguna/eñ ſvelged Ulpvalldañ.
Vei ydur Skriftlærdum og Phariſeis/
þier Hræſnarar/ſem hreinum halldeð þid yt
ra Bikurum og Diſkum/ eñ iñañ eru þier
fuller Rans og Ohoßſeme. Þu Blindur
Phariſeare/ hreinſa fyrſt hid iñra a Bikur
um ꝛ Diſkū/ſo ad hid ytra verde og hreint.
Vei ydur Skriftlærdum og Phariſeis/þi
er Hræſnarar/huorier lijker erud forfægudū
Leidum Framlideña/huer ed utañ ſynaſt fag
ur/ eñ iñañ eru þaug full aþ Daudra Ma=
ña Beinum/og allre Obreckt. So erud ꝛ
þier/ hid ytra ſyneſt þier ad vera gooder fyr
er Mennum/ enn hid jnnra erud þier fuller
Hræſne og Odygda. Vei ydur Skrift

lærdum og Phariseis/ þier Hræsnarar/ huer ier uppbygged Spámanna Leiden/ og prýded Graper Riettlátra Manna. Og seiged/ ef vier heþdum vered á Dögum Fedra vorra/ skylldum vær eige vered hafa hluttakande með þeim i Bloode Spámannana. So bered þier sialþer ydur Vitne/ ad þier erud þeirra Born sem Spámennena aþlýþudu/ Nu vel. Uppþylled Mæling þedra ydvarra. Þier Siturormar/ þier Nodrukyn/ huernen vilied þier umþlýia Helvijtska Fyrerdæming.
Fyrer því siáed/ eg sende til ydar Spámenn Spekinga/ og Skriþtlærda Menn/ og nockra aþ þeim munud þier aþlýþa og Krossþesta/ og suma munud þier Hýdstrykia i Samkundu Hwsu ydar/ og aþ annare Borg i adra munud þier þa oþsækia. So ad yfer ydur kome allt riettlátt Blood/ sem á Jördena vt er hellt/ i þra Bloode Abels Riettláta/ allt til Bloods Zachariæ/ Sonar Barrachia/ huorn þier drápud á mille Músteris og Alltarisins. Sannlega seige eg ydur/ ad allt þetta mun koma yþer þessa Kynslood. Jerusalem Jerusalem/ þu sem aflýþar Spámennena/ og grýter þa sem til þýn eru sender/ Huorsu opt heþ eg vilid ad

viliad samansafna Bornum þinum / lijka sem ad Hænan safnar Ungum sinum und-er Vænge sier / og þier hafed eige viliad? Sioed/ydvart Hws skal ydur i Eyde lat-ed verda/ þviad eg seige ydur/þier munud eige sia mig upp fra þessu/ þar til þier sei ged/ lofadur sie sa sem kiemur i Nafne DR DTTENS.

## XX Capitule.

Christur hroosar Giøf þeirrar fatæku Ekiunnar/sem kastade tveimur Skerfum i Guds Kistuna/ z seiger fyrer Eidelegging Mustereſins/og Jerusalems Borgar.

Matth. 24. Marc. 12 z 13. Luc. 21.

EN [h] JEsus settest þvert yfer fra Guds Kistunne/enn hann leit upp og sa hvørnenn Foolked varpade Pe ningum i Guds Kistuna/ z marger ryker løgdu þar miked i/ þa sa hann og svo eina Ekiu Fatæka sem kom og lagde tvo Skarfa inn/ þad er eirn Pening. Hann kallade sijna Lærisveina til sijn / og sagde þeim/ Sannlega seige eg ydur/ ad þesse fatæka Ekia liet meir i Guds Kistuna/enn aller þeir sem liet tu þar i/þvi þeir hafa aller af sinne yfergnoog anlegre Eign i slagt til Guds Offurs/enn þesse

hefur af Volædi sijnu þar innlagt allt hvad hun haffde/ sijna Biörg alla.

OG [e] þa Jesus gieck ut af Musterenu/ [b] sagde eirn af hañs Læresveinum vid hann Meystare/Siaa hvilijker Steinar og hvilijk Bygging þetta er? JESus svarade og sagde til hañs/sier þu allar þessar stooru Bygging ar? Nier mun eige epterlaatast Steirn yfer Steine/sa er ei verde sundurbroteñ. [a] Og hañs Læresveinar geingu til hañs / ad þeir sijnde honum Bygging Musteresins. [c] Og er nockrer sogdu um̃ Mustered ad þad være bær jad med fagra Steina/og Clenodiur/[f] sagde hañ til þeirra / Siaed þier ecke allt þetta? Sañlega seige eg ydur/ad sa Tijme mun koma a hvarium ad allt þetta/hvad þi er siaed/mun eingeñ Steirn yfer ödrum laat enn/sa er eige mun nidurbroteñ verda.

Enn [e] sem hañ sat a Fiallenu Oliveti giegnt Mustereun/geingu hañs Læresveinar til hañs einslega/Petrus og Jacobus og Jo hañes og Andreas/ spurdu hañ ad og sogdu/ [u] Meystare/seig þu oss nær allt þetta skal skie/ og hvert Teikn skal verda / þa þetta skal allt fullkomnast/og hvert Teikn er þiñ ar Tilkomu/ og Veralldarennar Enda? Eñ JESus

JEsus svarade og sagde til þeirra/ siaed til ad ei þaer nockur villt ydur/ þviad marg er munu koma i mijnu Nafne/og seigia/eg em Christur/og sa Tijme tekur ad nalgast/og þeir munu marga villa/þylged þeim ei epter. Enn nær þier heyred af Bardogum/ Upphlaupum og Nernadartijdindum/ siaeð til ad þier skielfest eige/ þviad allt þetta hlijtur fyrst ad skie. Eñ þo er þa ei Endereñ strax komeñ. Þa sagde hañ til þeirra/ þviad þar mun ein Þiood hefia sig upp i moote añare/og eitt Kongarijke i moote odru/ og mikler Jardskialftar munu þar verda allstadar/ Hungur og Drepsootter/Hrellingar og Skielfingar/og stoor Teikn munu þar skie af Himne/ [b] þetta er Upphaf Eymdaña. Eñ siaed þier ydur fyrer. [c] Eñ fyrer allt þetta munu þeir Hendur a ydur leggia/og Offsokn veita/ [1] og ydur munu þeir framselia i Radstefnur/og i sijn Samkunduhws og Myrkvastofur/ dragande ydur fyrer Konga og Landshofdingia / fyrer mijns Nafns saker / og þier munud styrkter verda miña vegna. Og þetta mun ydur henda til eins Vitnisburdar yfer þa. [a] Þa mũu

þeir ofurſelia ydur i Nardkvœle/og ydur ma
nu þeir Lÿfe fyrra/og þier verded hatader af
ølſum Þioodum/ fyrer mÿns Nafns ſaker/
og þa munu marger hneyxlaſt/og ſinnbyrdis
huør an̄an̄ ſuÿkia og hata. Og marger Fals
Spaamenn munu ſig þa upphefia/og marga
afvega leida. Og af þvi ad Ranglæted
mun yfergnæfa/ mun Kiærleikur margra kol
na. [c] Og Evangelio Rÿkeſins/byriar ad
ur ad predikaſt um̄ allan̄ Heim/ [a] til Vitn
isburdar yfer allar Þiooder/og þa mun End
erenn koma. [b] Þa þeir nu leida ydur og
fram̄ſelia / ſorged eige fyrer hvad þier ſkul
ud tala/vered ecke helldur þar um̄ forþeink
ter adur / helldur hvad ydur giefſt a ſomu
Stundu/þad taled/þviad ei erud þier(þeir)
ſem tala/ helldur Heilagur Ande. [c] Þvi
ſetied ydur i Hiarta þad þier hugſed eige fyr
er/ huørnen̄ þier ſkulud forſvara ydur/þvi-
ad eg mun giefa ydur Mun̄ og vitſku/ huør
ium ad eige ſkulu i giegn ſtanda/ nie moote
mæla aller ydar Mootſtodu Men̄. En̄ þier
munud og fram̄ſellder verda af Forelldrum
og Brædrum/Frændum og Vinum/og nock
ra af ydur munu þeir Lÿfe ſvipta. [b] Eirn

broodo-

Brooder mun selia añañ i Daudañ/og Fad er Soneñ / Borneñ munu setia sig i moote Forelldrunum / og styrkia til ad deyda þa. [h] Og þier munud verda hatader af huorium Mañe fyrer mijns Nafns saker. [c] Og eckert Haar af ydar hofde skal po farast. Eignest med Poleñmæde Saler ydar. [e] Eñ huor ed stadfastur bliifur allt til Enda/ mun hoolpeñ verda. [e] Eñ nær þier siaed Jerusalem umkryngda af Her/þa skulud þier vita ad nalgast tekr heñar Eydelegging. [e] Eñ þa þier siaed nu Svivirding Foreyd suñar/af huørre sagdt er fyrer Spamañeñ Daniel/ad hun stendur i þeim heilaga Stad huar eige biriade/huor ed þad les/hañ hyggi þar ad. [l] Huor þa er a Sydingalande flye sa uppa Fioll/ [e] og huor þa er midt inne/fare hañ wt þadañ/og huor a Londum uppe er/ hañ kome eige þar inn. [e] Og huor hañ er a Rafre/hañ fare eige nidur i Hwsed/og kome ecke þar inn neckud ad ta ka wr sijnu Hwse/ og sa sem er a Akre/hañ snwest eige a bak sier aptur ad sækia Klæde sijn/[e] þviad þad er Hefndar Dagur/so ad uppfyllt verde allt hvad skrifad er. [l] Eñ

vei þungudum Konum/og þeim sem haꝼa Børn ⁊ Briooste ⁊ þeim Tijmum. [c] Eñ bidied ad Floottе ydar verde ei um Vetur ed ur ⁊ Sabbatsdeige/[c] þuiad mikel Narm-kvæle munu verda ⁊ Jørdu / og Reide yfer þetta Foolk/ (og) ⁊ þessum [c] Døgum ve rda slijkar Nørmungar sem ei haꝼa vered hi er til ꝼra Upphaꝼe Skiepnuñar þa sm̄ Gud skapade/og allt til þessa/og eige helldur mun verda.[c] Og ꝼyrer Sverds Eggiū munu ꝼr ꝼalla og herleidder verda medal allra Þioo da/og Jerusalem mun undertrodast aꝼ Nei dingium/þar til ad uppfyllast Tijmar Neid ingia. [c] Og eꝼ DRDTTenn stytte ec ke þessa Daga/yrde eingeñ Madur holpeñ/ enn ꝼyrer Utvaldra saker/huoria hañ utval de/þa skulu þeir Dagar styttast. Og eꝼ nockr seiger þa til ydar/sia hier er Christr/ eda sia/þar er hañ/þa skulud þier eige þui trwa/þuiad upp munu rijsa marger Fals-christar og Fals Spamenn/ og þeir munu giora stoor Teikn og Undur/so ad i Villu munu leidast eꝼ skie mætte eirnenn Utvald-er. Þui siaed ydur ꝼyrer/Sie/ eg sagde ydur allt þetta ꝼyrer/ [a] þar fyrer nær þeir

seigia

seigia til ydar/siaed/hañ er a Eydemørku/ þa ganged eige wt/ siaed hann er i Herberge þa trwed eige/þviad so sem Ellding wtgeingur af Austre/og skijn allt til Vesturs/lyka so mun vera Tilkoma Mannsins Sonar. Þviad hvar hellst ad Hræed er/þangad safnast Erner ner.

# XXI Capitule.

Christur Spaaer fyrer um̃ þañ sijdasta Dag/ og sijna adra Tilkomu/eirneñ þaug Teikn er adur skie mune / og hvørneñ Menn skule sig þar til bwa.

Matth. 24. Marc. 13. Luc. 21.

ENN [e] a þeim Tijma/strax epter þessa Hormung/[e] mun þar skie Teikn a Soolu og Tungle / Stiørnum/ [e] Soolenn og Tungled munu missa sitt Skin/og Stiørnurnar munu af Himnum hrapa/ [e] og a Jordu mun Foolked kvijdande verda/og þeir munu orvilnast/Sioor / Bylgiur munu þioota/ Meñ munu fyrer Hrædslu vanmegnast/og af Epterbijdingu þeirra Hluta/hvorier ed koma skulu a Jørdena/ [1] þviad Kraptar Himnaña

munu

munu hræra sig/ [a] og þa mun Teikn Mañs
sins Sonar birtast a Himne / og munu þa
græta allar Kinkvijsler Jardar/ [1] Og þa
munu þeir sia Mañsins Son komande i



Skijum Himens / med stoorum Krapte og
mikillre Dyrd. [e] og þa man hañ wtsenda
sijna Eingla med Baſon og stoorre Raust/
og hañs wtvoldum munu þeir samansafna
aþ þiorum Vindum/ allt aþ Enda Jardar
til Himens Enda. [e] Enn nær þetta teks
ur ad skie/þa lijted upp/og upphefjed ydar
Hofud/aþ þvi ad ydar Endurlausn tekur ad
nalgast. Og hañ sagde þeim eina Epter

lijking.

lijking. Skoded Fijkiutried/ [c] nær þess Kvistier gioraſt brioost/ z Laufeñ wtſpretta/ [c] og øll Trie/nær þeirra Alldin tekur wt ad ſpringa/ [1] þa ſioed þier a þeim og me tked þad Sumared er i nand. So og lyka nær þier ſioed allt þetta biriaſt/þa vited ad Guds Ryke er nærre þyrer Dyrum. Sañlega ſeige eg ydur / ad þeſſe Kynſlood mun eige þorganga/ þar til ad allt þetta ſkier. Himen og Jord munu þorganga/ enn myn Ord munu eige þorganga. [c] Eñ af þm Deige og Stundu veit eingeñ/ ecke Engl ar a Himnum/og eige Soñureñ/nema miñ Fader eirnſamañ. [c] Eñ vared ydur ad ydar Hiørtu þyngeſt eige af Oþæte og Ofdryckiu/og med Sorgū þeſſarar Næringar ad eige kome þeſſe Dagur haſtarlega yfer ydur/ þviad lyka ſo ſem Snarañ mun hann koma yfer alla þa ſem a Jordu biggia. [a] Eñ lyka ſem var um̄ Daga Noa/ſo mun z verda Tilkoma M añſins Sonar/þvi ſo ſiñ þeir voru a þeim Døgum þyrer Flooded/ad þeir aatu/ þeir drucku/þeir giptuſt og lietu gipta ſig/ allt til þeſſ Dags / a hueriū Noe gieck i Orkena / og þeir ſættu þvi ei/

þar

þar til ad Flooded kom/og took þa alla i bu
rt. So mun og vera i Tilkomu Mañsins
Sonar/þa munu tveir a Akre vera/og mun
eirn uppteken̄/enn añar forlaten̄ verda/tvær
munu i einu Kvernhwse malande verda/og
mun ein uppteken̄/og oñur forlaten̄ uerda.
[1] Fyrer þvi siaed til/vaked og bidied alla
Tijma/ [c] so ad þier mættud verduger vera
ad umflya allt þetta/ hvad epterkomande er/
og ad standa so framme fyrer Mañsins Syne
[c] þviad þier vited eige nær Tyd er / (og)
a hvorre Stundu ydar Herra mun koma. [a]
Eñ þad skulud þier vita/ad ef Hwsfaderen̄
visse a hvorre Stundu ad Þioofuren̄ kiæme
munde hañ vaka/og lata ei sitt Hws i sund-
ur grafa. Fyrer þvi vered þier reidubwner/
þviad Mañsins Son mun koma a þeirre
Stundu þier meined ecke/[b] so sem sa Ma
dur er ferdadest langt burt/forliet sitt Hws
og gaf sijnum Þioonum Yfervalld/sierhuor
jum sitt verk / og baud Dyraverdenum ad
hann vekte. [a] Eñ hvor hañ er tr-
wr Þioon og forsiall/ sem Herrañ hefur sett
yfer sijn Hiw/ad hañ giefe þeim Fædu i ri
ettann Tijma. Sæll er sa Þioon nar hn̄s
Herra

Herra kiemur/ og piñur hann so gioranda.
Sañlega seige eg ydur ad hañ mun setia hñ
yber syn Audæfe. Eñ ef eirn af þeim
vondu Þioonum seiger i sijnu Hiarta/ miñ
Herra dvelur enn nu leinge ad koma/ og tek=
ur ad slaa sijna Samlags Þioona/etur og dr
eckur med Drycktiurtwturum. Þa kiemur
Herra þess Þioons/a þeim Deige sem hañ vo
nar eige/ z a þeirre Stundu er hñ mein=/
ar ei/og mun i sundur parta hañ/og mun gi
efa honum Laun med Hræsnurum/þar mun
vera Op og Tañagnijstran. (b) Þvi
vaked nu/þviad þier vited ei / nær Herrann
Husens kiemur/huort hann kiemur ad Kuo=
lde/eda um Midnætte/edur þa Haneñ gel
ur/ellegar ad Morgne. So ad ei kome hañ
skindelega/og fiñe ydur Sofande. Enn
hvad eg seige ydur / þad seige eg ollum.
Vaked þier.

## XXII Capitule.

Epterlijking um þær tiju Jomfrwr / og
haug Pund sem Herrañ ytck sijnum Þioonum
til Vestunar.

Matth. 25.

Þa mun



A mun Himmarÿke lÿkt vera tÿu
Meÿum / huør iar ad tooku sÿna
Lampa/og geingu wt i moote Br
wdgumanum. Eñ fim af þeim
voru Fawÿsar/og fim̃ Forsialar. Þær sem
Fawÿsar voru/tooku sÿna Lampa/enn too
ku þo ecke Vidsmior med sier/eñ hinar For
sialu tooku i sÿnum Kierum Vidsmior m̃
Lompunum. Og er Brwdgumeñ giørde
dvøl a ad koma/syfiade þær allar/ og sofn
udu. Eñ um̃ Midnætte kom Kall / sia med
Brwdgumeñ kiemur/ganged þier wt i moo
te honum. Þa stoodu upp allar þessar Mey
ar/ og prÿddu sÿna Lampa. Eñ þær Faw
ÿsu sogdu til hiña Forsialu/giefed oss af
Vidsmiore ydru/þuiad vorer Lampar slock
na wt. Hinar Forsialu suørudu og sogdu/
ecke so/ma vera ad ei sie noog fyrer oss og
so ydur/fared þier helldur til Solumaña/
og kauped ydur sialfar. Eñ er þær geingu
ad kaupa, kom Brwdgumeñ/og þær sem rei
dubunar voru geingu med honum iñ til Br
wdkaupsins/ꝛ Hurdeñe var apturlokad. Ad
sÿdustu komu og hinar adrar Meyar/ꝛ sogdu
Herra/Herra/lwk þu upp fyrer oss. Enn
hñ svar

hañ svarade og sagde/ Sañlega seige eg ydur/ad eg þecke ydur eige. Fyrer þvi vaked þviad þier viked eige þañ Dag nie Stund ꝏ huerre Mañsins Son mun koma.

Lijka sem sa Madur er ferdadest Utanlands kallade syna Þioona/og fieck þeim sitt Goz. Og einum fieck hañ fim̃ Pund/ enn ødrum tvo/ hinum þridia eitt/huorium eins um epter synum Mætte/ og ferdadest strax af Stad. Þa gieck sa til sem fim̃ Pund hafde medtekeð / og kaupslagade med þeim sonu/ og vañ þar m̄z oñur fim̃ Pund. Lijka eirneñ sa sem tvo Pund hafde medtekeð/vañ og ꝏ tvo oñur. Eñ sa er eitt Pund hafde medtekeð/foor burt/groof i Jordu/og falde þar syns Herra Fie/ eñ epter langañ Tijma lideñ/kom Herrañ þessara Þioona/og hielt Reikningskap vid þa. Þa gieck sa til sem fim̃ Pund hafde medtekeð/og lagde oñur fim̃ Pund þar til/og sagde/Herra/fim̃ Pund fieckstu mier/ sia oñur fim̃ hef eg ꝏ uñed. Hañs Herra sagde honum/ Ey þu goode og trwlynde Þioon/þu hefur vered tr ꝏ yfer litlu/ eg vil setia þig yfer myked/ gack iñ i þijns Herra Fognud. Þa gieck

og ſa ad ē tvø Pund hafde medtefed/og ſagde
Herra/tvø Pund ꝥieckſtu mier/ſiaa/oñr tvø
Pund heꝥ eg med þeim auñed. Hañs
Herra ſagde til hañs/ Ey þu hinn goode
Þioon/ꝛ trwlynde/þu varſt trwr yꝥer litlu/
eg vil ſetia þig yfer myked/gack iñ j þijns
Herra Fognud. Þa gieck ſa ad ſem eitt
Pund haꝥde medtefed / og ſagde/ Herra/eg
veit ad þu ert hardur Mañ/þu uppſkier hv
ar þu Saa der eige/ og ſamanſaꝥnar hvar
þu dreyꝥder eige/og Ottaſleigeñ ꝥoor eg bu
rt/og ꝥalde Pund þitt i Jørdu/ſiaa/þar heꝥ
ur þu þad hvad þitt er. Eñ hañs Herra
ſvarade og ſagde til hañs/ þu vondur Þio-
on og latur/viſſer þu ad eg ſkier upp hvar
eg Saade ei/ og ſamanſaꝥna hvar eg dreiꝥ
de eige? Þvi byriade þier ad ꝥaa miñ Pen
ing Weſlunar Moñum/og nær eg kæme/he
ꝥde eg hvad mitt er/til mijn teked m3 Ofre.
Fyrer þvi taked aꝥ honum þad Pund/ ꝛ gi
eꝥed honum ſem tiju Pund heꝥur/þviad hvør
hañ hefur honum mun gieꝥed verda/og mun
hañ Nægd haꝥa/Eñ hvør ed eige heꝥur ꝥra
þeim mun teked verda / og þad hañ heꝥur.
Og þeim onyta Þioon kaſte þier i hin yſtu

Myrkur

Myrkur þar mun vera Op og Tannagnyst‑ran.

# XXIII Capitule.

Christur seiger fyrer sijnum Lærefveinum/ hvørnenn til mune gaanga a þeim sijdasta Doomsins Deige.

Matth. 25. Luc. 21.

ENN þa [a] Mansins Son mun koma i siñs Dyrd/ og aller helger Einglar med hønum. Hañ mun þa sitia i Sæte siñar Dyrdar. Og allar Þiooder munu samañsafnast fyrer hønum/ og hañ mun þa sundurskilia hvoria fra ødrum/ so sem Hyrder sundurgreiner Saude fra Kidum. Og Saudunum mun hañ skipa til siñar hægre Handar/ eñ Kidunum til Vinstre. Þa mun Kongureñ seigia til þeirra/ sem a hægre Hønd eru/ komed hier þier Blessader Fødur mijns/ og eignest þad Rijke/ sem ydr var tilbwed fra Upphafe Veralldar. Þviad hungradr var eg/ og þier gaf ud mier ad eta/ þyrstur var eg/ og þier gaf ud mier ad drecka. Giestur var eg/ og þier hysstud mig. Naken var eg/ og þier klædd‑

 ud mig.



ud mig. Siukur var eg/ og þier vitiudud mijn. J Myrkvastoþu var eg/og þier komud til mijn. Þa munu hiner Riettlaatu ſv

ara og

ata og seigia/Herra/Hvonar saum vær þig Hungradañ/og mettuðũ þig? Eda Þyrstañ og gaafum þier ad drecka? Eda hvonar saa um vær þig Giestkomenn og hystum þig? Eda nakenn og Klæddum þig? Eda hvonar saum vær þig Siukañ/eda i Myrkva stofu/og komum til þijn? Og Kongureñ mun svara og seigia til þeirra/Sañlega se ige eg ydur/hvad þier giordud einum af þess um mijnũ minstu Brædrũ/þad giordud þier mier. Þa mun hañ og seigia til þeirra sem til Vinstre Handar eru/ Fared burt fra mier þier Bølvader i eilijfañ Elld/þañ sem tyrerbwnẽ er Fiandanum og hañs Aarum/ Hungradur var eg/ og þier gaafud mier eige ad eta. Þyrstur var eg/og þier gaafud mier eige ad Drecka. Giestur var eg/og þier hyst ud mig eige. Nakeñ var eg/og þier Klæd dud mig eige. Siukur og i Myrkvastofu var eg/og þier vitiudud mijn eige. Þa mu nu þeir svara hønum og seigia/Herra/ Hvo nar saum vær þig Hungradann / Þyrstañ/ eda Giest/edur Nakeñ/Siukañ edur i Myrk vastofu/og høfum þier ecke þionad? Þa mun hañ svara þeim og seigia/Sañlega sei

ge eg ydur/hvad þier giordud eige einum af þessum enum minstu/þad giordud þier mier eige. Og munu þeir ganga j eilijfar Pijner/ enn Riettlæter j eilijft Lijf.

OG [c] um Daga kende hann i Musterenu/ enn um Nætur gieck hann wt/og dvaldest um Nætur a Oliufiallenu. Og allt Foolk took sig snemma upp til hans i Mustered/ hønum ad heyra.

# XXIV Capitule.

Christur seiger eñ fyrer sijna tilstandande Pijnu/ innan tveggia Daga/ enn Kiennemanna Høfdingiarner og Skriftlærder giøra Raadsløgun ad høndla JEsum med Kiænsku/og giøra Kaup vid Judam Iscarioth/ad svijkia hann. Lærersveinarner tilreida Paaskalambed epter Christi Tilsøgn.

Matth. 26. Marc. 14. Luc. 22.

OG [a] þad skiede/þa JEsus hafde lyktad alla þessa Rædu/sagde hann til sinna Lærersveina / þier vited ad epter tvo Daga eru Paaskar/ og Mannsins Son mun ofurseldast/ ad hann Krossfestur verde. [c] Enn þa var nalæg Hatijd hins sæta Brauds/ huør ed kalladest Paaskar.

ÞA [1] søfnudust saman þeir ædstu Prestar og Skriftlærder/ og Aulldungar Lydsins/ i Høll

Kiennemanna

Kiennemañahøfdingians þesser Caiphas hiet/ hielldu Raad og leitudu epter / huørneñ þeir gi ete med Slægd gripeð JESum z lijflaated hñ. [c] Enn þeir sǫgdu/ eige þo a Hatydardeigen um/so ad eige verde Vpphlaup med Foolkenu/ [e] þviad þeir ottuduſt Lydeñ. Eñ Andſkot enn var hlaupeñ i Judas þañ kalladur var Iſ cariot/og var einn af Tolu þeirra Tolf. [l] Og hañ gieck burt til Kieñemañahøfdingiaña/ og talade vid þa ædſtu Preſta og Hǫfudsmenn na/huørneñ hann villde ſelia hñ þeim. [h] Og er þeir heyrdu þad/glǫdduſt þeir / og hietu ad giefa hǫnum Peninga. [a] og (hañ) ſagde/hu ad villed þid giefa mier/ eg vil ſelia ydur hañ? Enn þeir budu hǫnum þriatyger Silfurpen inga. [e] Og hañ lofade þeim þvi. [l] Og þadañ i fra leitade hañ Lags/huørneñ hañ gie te forraaded hañ ſem hægaſt æn Vpphlaups.

CXXX [l] a hinum fyrſta Sætabrauds Deige a huørium Offra ſkyllde Paaſkalambenu [h] ſende hañ wt tvo af ſijnum Lærẽſveinum/ Petrum og Johañem z ſagde til þeirra/ [e] Far ed þid/bwed oſſ til Paaſkalambed / ſvo ad vier neytum þeſſ. [l] Eñ Læreſveinarner geingu til JESum og ſǫgdu til hans / Huørt villtu vier fǫrum ad vier tilreidum þier Paaſkalamb ed ad eta? Hañ ſagde til þeirra / gaanged inn i Staden/ Sioed nær þier komed i Borgena/ [h] mun Madur mæta ydur berande Vatns krws/ fylged hǫnum epter i þad Hws ſem hñ inngeingur. Og hvar hellſt hañ geingur jnn/

þa seiged Hwsherranum / [l] Meystaren̄ lætur seigia þier / [a] min̄ Tyme er i nænd / hia þier vil eg Paaska hallda/[h] Hvar er þad Herberge er eg kan̄ ad neyta Paaskalambsins med: mynū Læresveinum? Og han̄ mun syna ydur eirn stooran̄ Sal steinlagdan̄ og tilbwen̄/ reide þier þad þar til fyrer oss. Og Læresveinarner geingu wt/og komu in̄ i Staden̄/ og fundu svo sem han̄ hafde sagdt þeim/ [a] og giørdu so sm̄ JESus hafde þeim boded / [l] og reiddu til Paaskalambed. Enn um̄ Kvølded þa er Stunden̄ kom/ kom han̄/ sette sig til Bords/ z þeir tolf Postular med hønum. [c] Og han̄ sagde til þeirra/ mig hefur hiartanlega epterlangad/ad eta þetta Paaskalamb med ydur/ædur enn eg lyd. Þviad eg seige ydur/ad hier epter mun eg ei optar af þvi neyta / þar til ad þad fullkomnast i Gudsryke. Og hn̄ took Kalleiken̄ giørde þacker og sagde/ medtaked han̄ z skipted hønum æ millum ydar/ þviad eg seige ydur/ eg mun ei dreckа af Vynvidar Avexte fyrr en̄ Guds Ryke kiemur.

# XXV Capitule.

## Christur þvær Fætur sinna Læresveina/ og innsetur þad Hellaga Sacramentum synns Hollds og Bloods / seiger eirnen̄ fyrer hvør sig svykia mune.

Matth

Mat. 26. Marc. 14. Luc. 22. Ioh 13.

Fyrer [d]Paaſka haatijdena/ þa IEſus viſſe ad hañs Tyme var komeñ/ ad hñ geinge wr þeſſum Heime til Fødurſins/ lyka ſem hañ elſkade ſyna/ þa er hier voru i Heime/ ſo elſkade hann þa allt til Enda. Og epter Kuølldmaaltydena/ þegar Dioøfullenn hafde alla reidu ſendt i Hiarta Judæ Simonis Iſcariot/ ad hañ ſvyke hann. Þa viſſe IESus þad Faderen hafde allt gieſed ſier i Hendur/ og þad ad hñ var af Gude komeñ/ og til Guds þa fære hañ. Þa ſtood hañ upp fra Kuølldmaaltydeñe/ lagde af ſier Klædeñ/ og took eitt Lijnklæde/ og gyrdte um̃ ſig. Epter þad hellte hañ Vatne i eina Muñlaug/ og took til ad þvo Fæturnar æ Læreſveinunũ/ z þurkade med þvi Lijnklæde er hñ var med gyrdtur. Þa kom hañ til Simonar Petrum/ og hañ ſagde til hañs/ Herra ſkylldert þu þvo mynar Fætur? IESus ſvarade z ſagde hønum/ Hvad eg giøre þad veitſt þu nu ei/ eñ ſeirna ſkalltu ſkilia þad. Þa ſagde Petur til hañs/ alldrei ſkalltu mynar Fætur þvo. IEſus ſvarade hønum/ þvoe eg þig ecke/ þa hefur þu ei Hlutdeilld medur mier. Simon Petrus ſagde þa til hañs/ Herra/ ecke einaſta Fæturnar/ helldur eirneinn Fætur og Høfud. Jeſus ſagde til hanns/ ſa þveigenn er/ hann þarf eige ad þvo nema Fæturnar/ þviad hñ



er alldungis Hreirn / þier erud og hreiner/ en eige aller/ Þvi hann visse ap sijnum Svikara vel/ þvi sagde hn̄/ þier erud ecke aller hreiner.

EN Nu sem þad hañ hafde þvoiged Fætur þeirra/ toof hn̄ sijn Klæde sellest nidur

aptur/og sagde þa eñ til þeirra/ vited þier
hvad eg giørde ydur? Þier kalled mig Mei-
stara og Herra/ þier seiged þad og riett/
þviad eg er hañ og. Nu ef eg ydar Herra
og Meystare hvæ ydar Fætur / þa skulud
þier og sñbyrdis þvo hver añars Fætur. Þe
tta gaf eg ydur til Epterdæmis/so þier gi
ered lyka sem eg giørde vid ydur. Sañle-
ga sañlega seige eg ydur/ad Þiooneñ er eige
meyre sijnū Herra/nie Postuleñ þeim er hñ
utsende. Ef þier vited þetta/þa erud þier
sæler ef þier giøred þad. Eige seige eg um
ydur alla / eg veit huoria eg hefe utvaled/
helldur þad ad uppfyllest Ritningeñ/sa sem
ad etur Braud mitt / hañ tredur mig under
Fætur. Nu seige eg ydur þad / ædur enn
þad skiet/so ad þier trwed þa þad er skied/
ad eg em hañ. Sañlega sañlega seige eg
ydur/ Huer hañ medtekur/ ef eg sende nock-
urn/sa medtekur mig / eñ huer hañ medtekur
mig/hann medtekur þann er mig sende.
Og [e] þa þeir neyttu / [l] took IEsus
Braudet / giørde þacker og braut þad/
gaf þad Lærefveinunum og sagde/[e] taked og
eted/[l] þetta er mitt Hollld/ [e] þad fyrer
ydur gief

ydur gieſsed verdur/ giored þetta i mijna



Minning. Lijka eirnen̄ epter Kuølldmaltij dena/ [l] took han̄ Kaleiken̄/ [e] giørde þack er/ gaf

et/ gaf þeim hañ og ſagde/ [a] drecked aller
þar af / [c] þad er mitt Blood þeſſ Nya
Teſtamentis ſem fyrer marga vthelleſt/ [a]
til Fyrergiefningar Syndanna/ [c] þeſſe er
Kaleikur hins Nya Teſtamentis i mijnu Bl
oode/huort fyrer ydur verdur Vthellt/[b] og
þeir drucku aller af hønum. (JEſus ſagde)
Sañlega [c] ſeige eg ydur/ ad eg mun eige
hiedañ i fra drecka af þeſſum Vijnvidar A
vexte/allt til þeſſ Dags er eg mun drecka
ꝥ nyÿtt mz ydur i Ryke Guds mijns Fødurs.
OG [e] er þeir ſætu til Bords og ætu/ [d]
þa JEſus hafde þetta ſagt/ hrygdeſt hñ
i Anda/ vottade z ſagde/ [c] Enn þo ſiæd ad
Hønd þeſſ er mig ſvijkur er æ Borde med mier.
[m] Sañlega ſañlega ſeige eg ydur/ ad eirn af
ydur ſem etur med mier/ forrædur mig. Eñ
Læreſveinarner urdu hryggver vid / leit huør
til añara/ [d] uggande af huørium hann ſegde.
Og [c] þeir tooku ſyn æ mille ad ſpyria / huør
af þeim være ſa er þetta munde giøra. [e] Og
þeir hrygduſt miøg vid/ og huør eirn epter añ
añ/ ſagde til hañs / Er eg þad nockud Herra?
[b] Og hiñ añar/ Er eg þad nockud? [c] Enn
hañ ſvarade og ſagde til þeirra / eirn af þeim
Tolf ſa er Hendeñe drepur i Fated med mier/
ſa mun mig forræda. [c] Og ad ſønnu fer
Mañſins Son epter þvi ſem ælyktad er/ (og)

ſkrifad

skrifad [l] er af hönum. Enn þo vel þeim
Manne/ fyrer huørn Mañsins Sonur verdur
forrꜳdeñ. [e] Betra være þeim sama Mañe
ad alldrei hefde hañ Fæddur vered. [d] Enn
þar var einn af hañs Lærisveinum/ sem sat til
Bordsins hia Brioosté IEsu/ huørn ad IE-
sus elskade/ hönum bendte Simon Petrus ad
hañ spyrde hann/ huør sa være er hñ hefde um
talad/ af þui hañ lꜳ ꜳ Brioosté IEsu / og
hañ sagde til hañs/ Herra/ Huør er sa? IE-
sus svarade/ sa er hann hinn same er eg dyfe
þeñan Bita og gief / og dyfde i Bitanum / og
gaf hañ Iudæ Simonis Iscariot/ ⁊ epter þañ
Bita foor Sathan i hñ. Þa sagde IESus
til hañs/ hvad þu giörer/ þa giör þad fliootl.
Eñ eingeñ af þeim sim til Bordsins sꜳtu / vissi
til huørs hañ sagde hönum þad / sumer ætlu-
du / af þui ad Judas hafde Fieþyngiuna / ad
IESus munde segia hönum/ kaup þad oss gi-
ørest Þörf til Hꜳtydar Dagsins / eda ad hann
gæfe nockud Fatækum. [a] Þa svarade Judas
sa sem forraded hñ/ ⁊ sagde/ Er eg þad nockud
Rabbi? Hañ sagde til hñs / þu sagder þad.
[d] Og þa hñ hafde Bitañ teked/ gieck hñ strax
wt/og þa var Noott. Eñ þa hañ var wtge-
ingeñ sagde IESus/ Nu er Mañsins Son-
ur auglystur/og Gud er auglystur i hönum.
Fyrst Gud er auglystur i hönum / þa mun
Gud auglysa hañ i sialfum sier / og snar-
lega mun hañ auglysa hañ.

XXVI Capi.

# XXVI Capitule.

Christur nidursetur Þrættan Postulanna sem reis wt aþ þvi / huør þeirra hellstur vera munde/ aminner þa til jnnbyrdis Elsku / seiger fyrer Fall Peturs / og ad þeir være vidbwner yfer hangande Hærska.

Luc. 22. Iohann. 13.

Enn (c) þar hooþst upp Þræta þeir ra a mille huør þeirra munde me stur halldeñ verda. Eñ hañ sag de til þeirra/ Veralldleger Kong ar drottna/ og huerier Yþermagtena haþa/ þa kalla Meñ nadugа Herra. Eñ þier ei ge so/ helldur sa sem mestur er ydar a mille vere hañ so sem hiñ yngste/og hiñ ædste sinn añar Þienare. Þvi huør er meyre sa sem til Bordsins situr/ edr sa sem þioonar? Er eige so/ad hañ sem vid Borded situr? Enn eg em a millum ydar/ sem eirn Þioon. Eñ þier erud þeir/ huerier hia mier haþa stad-næmst i mijnum Freystingum. Og eg vil skycka ydur Rijked/so sem miñ Fader heþur mier skyckad. So ad þier skulud eta og dr ecka yþer mijnu Borde i mijnu Rijke/ & sitia a

Stoolum

Stoolū / dæmāde tolf Kynkvijsler Israels. KJæru [d] Børn/eg em eñ litla stund hia ydur/þier munud leita mijn/og lijka sm eg sagde vid Gydinga / huort eg fer/ þang ad kuñed þier ecke ad koma / og nu seige eg ydur. Eitt nytt Bodord þa gief eg ydur/ ad þier elsked huor annañ/ lijka sem eg elsk ade ydur/ so skulud þier og elskast innbyrd is. Og af þvi munu aller þeckia ad þier erud myner Læresveinar / ef þier hafed Ki ærleikañ ydar a mille. Simon Petrus sagde til hañs/ Herra/ Huört fer þu? JEs us svarade hønum/ þangad sem eg fer maattu nu ad sinne eige fylgia mier/ eñ seinna meir þa muntu fylgia mier. Petur sagde til hanns/ Herra/ Þvi maa eg nu ei ad sinne fylgia þier? Eg vil setia mitt Lijf wt fyrer þig. [k] Eñ DROTTeñ JEsus svarade hønum og sagde [d] skyllder þu setia þitt Lijf wt fyrer mig? [e] Simon Simon sia þu ad Andskoteñ hefur gyr ndst ydar/ ad hañ mætte sællda ydur sem Hvei ite/ eñ eg bad fyrer þier ad þijn Trwa skyllde ecke liña. Og þegar þu snyst einu sinne / þa styrk þu Brædur þijna. Enn hañ sagde til hañs/ Herra/ reidubueñ em eg med þier i Fiøt ur og Dauda ad ganga. Þa sagde hañ/Pet ur/ [k] Sañlega sañlega seige eg þier/ad i Dag mun ei Haneñ gala fyrr eñ þu hefur þrisvar afneytad þvi/ad þu þeckter mig. Og

OG [c] hañ ſagde til þeirra / þa eg ſende ydur wt an Pungs an Tøſku / z an Skoo/ hußrt braſt ydur þa nockud? Enn þeir ſøgdu/ eckert. Pa ſagde hañ til þeirra / eñ nu huør ed Pung hefur/ ſa take hañ / lyka og eirnenn Tøſkuna/ og ſa er eige hefur/ſelie hñ Kyrtil ſiñ og kaupe Sverd. Þviad eg ſeige ydur / ad þ blytur a mier ad fullkomnaſt hvad ſkrifad er/ þad hañ er med Illvirkium reiknadur. Þvi hvad af mier ſkrifad er/hefur eirn Enda. Eñ þeir ſøgdu/ Herra/ Sia/tvø Sverd eru hier/ hann ſagde til þeirra / þad er noog.

# XXVII Capitule.

Chriſtur huggar ſiſna Læreſveina marg vijſlega / ſem Hryggver voru orðner af hanns Predikun um̃ ſijna Burtfør/ og gefur þeim Fyrerheit Heilags Anda.

Iohann. 14.

OG hañ ſagde til ſiña Læreſveina ydar Hiorta hrædeſt ecke/trwe þier a Gud/þa trwe þier z ſo a mig. I mijns Fodurs Hwſe eru marg ar Verur. Eñ ef ei ſo være / þa villde eg ſeigia/ad eg fære ad tilbwa ydur Stad. Og þa eg fer hiedañ ad tilbwa ydur Stad/ þa vil eg aptur koma/ og taka ydur til mijn

so þier sieud þar sem eg er. Og huort eg fer þ vite þier/og Veigeñ vite þier eirneñ. Thomas sagde til hañs/ Herra/ vier vitum ei ge huørt þu fer/eda huørnenn meigum vier þa Veigeñ vita? JEsus sagde til hañs/ eg em Vegureñ z Sañleikureñ og Lyfed. Eingeñ kiemur til Fødursins / nema fyrer mig. Ef þier þeckted mig/ þa þecke þier og miñ Fødur/og nu hiedañ i fra/ þa þecked þier hañ / og hafed sied hañ. Philippus sagde til hañs/ Herra / syn oss Fødureñ þa næger oss. JESVS sagde þa til hñs / so leinge er eg hia ydur / og þu þecker mig eige? Philippe/huor mig sier/ sa sier Fødurenn/ og huorneñ seiger þu þa: Syn oss Fødureñ. Trwer þu eige; ad eg em i Fødurnum og Fadereñ i mier? Þaug Ord eg tala til ydar/ þaug tala eg ecke af sialfum mier/ Fadereñ sem er i mier/hñ giorer þaug Verk. Trwed mier ad eg er i Fødurnum/og Fadereñ i mier / vilied þier það eige / þa trwed mier þo fyrer Verkañа saker. Sañlega sañlega seige eg ydur/huor hañ trwer a mig sa mun eirneñ giøra þaug Verk sem eg giøre/ hañ mun og giøra þessum meire/ þviad eg fer til Fødursins. Og huors þier bidied

i mijnu

i mijnu Nafne þad vil eg giora/so Faderenn dyrkest i Synenum. Huors þier biddied i mijnu Nafne / þad vil eg giora.

EF þier elsked mig/þa hallded mijn Boð-ord. Og eg mun bidia Fodurenn/og hann mun giefa ydur annann Huggara/ so ad hann sie hia ydur Eilijflega. Þann sannleiks Anda/ huorn Heimurenn fær ei medteked/þvi hann sier hann eige/ og þecker hann eige/ enn þier þecked hann/ þviad hann blijfur hia ydur / og mun vera i ydur. Eige vil eg ydur Fodur-lausa epter læta/eg kiem til ydar. Þad er enn nu lijtell Tijme/ þa mun Heimurenn ei siaa mig meir/ enn þier skulud siaa mig/ þvi ad eg life/og þier munud lifa eirnenn. A þeim Deige munud þier skilia/ ad eg er i mijnum Fodur/ og þier i mier/og eg i ydur. Huor hann hefur mijn Boðord/ og helldur þa ug/hann er sa sinn mig elskar/enn sa mig elskar sa elskast af mijnum Fodur/og eg mun elska hann / og eg opennbera mig fyrer honum. Þa sagde Judas eige Iscarioth/til hanns/Herra/ Hvad er þad/ ad þu villt opennbera þig oss enn eige Heimenum? JEsus svarade og sagde til hanns/Huor hann elskar mig sa helld

ur mijn Ord/og min̄ Fader mun elſka hann/ og vid mumum koma til han̄s/og giøra i hia hønum Biſtarveru. En̄ huør hann elſkar eige mig/ſa helldur eige mijn Ord/ og þad Ord er þier heyred er eige mitt/helldur Fød urſins þeſſ er mig ſende. Þetta ſagde eg ydur/ ꝍ medan̄ eg var hia ydur. En̄ Hug gaꝛen̄ hin̄ heilage Ande/ hann er min̄ Fad er mun ſenda i mijnu Nafne/ hann ſialfur mun kenn̄a ydur þad allt/ og aminn̄a ydur ꝍ allt huad eg ſagde ydur. Frid læt eg ydur epter/ min̄ Frid gief eg ydur / ei gief eg ydur ſo ſem Heimuren̄ giefur/ ydvart Hiarta hræde ſt eige nie ſkielfeſt. Þier heyrdud þ eg ſagde ydur/eg fer burt/ eg kiem til ydar aptur/ef þier elſkudud mig þa glleddduſt þier vid þad/ad eg ſagde/ eg fer til Fødurſins/ þviad Faderen̄ er mier meire. Og nu ſagde eg ydur þad fyrr en̄ þad ſkier/ſo ad þier trwed þa þad er ſkied. Hier epter mun eg ei tala margt framar vid ydur/þvi Hefur inge þeſſa Heims Kiemur/ og med mig hefur han̄ eckert. Helldur þad ad Heimurenn þecke þad eg elſka Føduren̄/og eg giøre ſo ſem Faderen̄ hefur mier boded. Standed upp og latum oſſ ganga burt.

